# NÝ KRISTILEG SMÁRIT.

ÚTGEFANDI:

P. PJETURSSON.

REYKJAVÍK.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1874.

# Þjóðhátíðar sálmur.

Lag: Í dag eitt blessað barnið er.

1. Guð leit af himna hæð og sá
í höfum norðurs köldum
úr ægi risna eyju þá,
sem ættland vort vèr höldum;
hann mælti þá: „hèr eyland er,
sem autt ei láta þóknast mèr;
þótt gnæfi fjöll með fönnum,
þar býðst svo margföld blessun mín,
og blítt þar sól í dölum skín;
eg býð: það byggist mönnum“.

2. Og herrann sendi hrausta þjóð,
er hólmann auða byggði;
en það, í myrkrum að hún óð,
hans anda góðan hryggði;
hann vildi', að sannleiks sólin blíð
til sáluhjálpar skini lýð
um fátækt frónið ísa;
í landi boða lèt hann því
um lífsveg rèttan fræði ný,
og krossinn Krists hèr rísa.

3. Ó, lof sè Guði! líknin hans
ei landi voru gleymdi;
til heilla beztu búum lands
hans blessun niður streymdi;
og þótt á dyndu þrauta hret,

hann þau í tíma dvína lèt,
og skin æ skúrum fylgja;
þá nauða flóði hafrót hæst,
var hjálparorð hans jafnan næst:
„nú harma hjaðni bylgja“.

4\. Þá hjátrú glapti sálna sjón
og sortinn páfavillu,
en drottinn *Lúter* lèt, sinn þjón,
þeim lètta myrkrum illu, —
sitt orð um dauðans brotinn brodd
hann birta lèt þá hèr sinn *Odd*[1]
og litlu síðar sendi
með skyggðan andans beitta brand
þann biskup, *Guðbrand*[2], sem vort land
æ man, þótt margt oss hendi.

5\. Ó, lof sè Guði! hjarta hans
ei hverfði rásin tíðar;
hann minntist eins vors auma lands
og að oss hugði síðar;
um helög ástverk herma sín
guð *Hallgrím*[3] lèt og *Vídalín*[4],
og fleiri góða gaf oss,
er bæta vildu bágan hag,

---

1) Oddur Gottskálksson, seinast lögmaður, † 1556, var einn af þeim, er fyrstir fylgðu fram Lúters trú hèr á landi, og sá, er fyrstur útlagði nýja testamentið á íslenzku.

2) Guðbrandur Þorláksson, biskup á Hólum frá 1571 til 1627, gaf fyrstur út alla biflíuna á íslenzku, og lèt auk þess prenta fjölda annara andlegra bóka.

3) Vort ágæta sálmaskáld Hallgrím prest Pètursson † 1674.

4) Hinn fræga mælskumann Jón Þorkelsson Vídalín, biskup í Skálholti frá 1698 til 1720.

og bresti þjóðar færa' í lag,
svo lètti lemstrum af oss.
6. Guð minntist vor og minnist enn,
á miskunn hann ei þreytist;
þótt náð hans illa noti menn,
hans náðarþel ei breytist;
þótt margt vèr brytum, herrann hár
oss hefur vægt í þúsund ár,
og enn sem vígi ver oss;
þótt spillt og sek vèr sèum þjóð,
á sonarins hann lítur blóð,
og dregur dóm, sem ber oss.
7. Ó, blessuð sèrtu, blessuð náð,
er blessun alla gefur,
og undir væng þinn Ísaláð,
hið auma, tekið hefur.
Ó herra Guð, vor hirðir trúr,
vor hjálpin traust og verndar-múr,
vèr heitt af hjarta biðjum:
bú þú hèr sjálfur æ með oss,
um aldir skjól við Jesú kross
oss veit og vorum niðjum.

*Helgi Hálfdánarson.*

---

# Páll postuli.

Af öllum þeim, er unnið hafa að því að útbreiða Jesú Krists heilaga lærdóm, er enginn sá, er jafnmikið kveði að sem postulanum Páli; hann grundvallaði fyrstur manna Krists kirkju meðal heiðingjanna, og kom föstu skipulagi á söfnuði þá, er hann stofnaði víðsvegar meðal hinna merkustu þjóða fornaldarinnar; brjef þau, sem til eru eptir hann í Nýja Testamentinu, hafa og ávalt haft og munu hafa hin mestu áhrif á kristilega kirkju; auk þess er hið andlega líf Páls postula einhver hinn merkasti vottur um almættiskrapt Guðs náðar til að hreinsa og helga hugarfar syndugs manns; því miður vitum vèr eigi með vissu annað um æfi hans, en það sem sagt er í Postulannagjörningabók og það, sem ráða má af ýmsum greinum í brèfum hans.

Postulinn Páll, eða Sál, eins og hann var nefndur framan af, var Gyðíngur að ætt; hann var fæddur og uppalinn í borg þeirri, er Tarsus hèt; það var grísk verzlunarborg, sunnan til í Litlu-Asíu í landi því, er Silisía nefndist; faðir hans var af ættkvísl Benjamíns og hafði öðlast rómverzkan borgarrètt. Í Silisíu var um þær mundir tjaldagjörð mikil og lærði Páll þá iðn; samt sem áður var hann á unga aldri settur til menta; optar en einusinni farast honum svo orð, að sjá má, að hann hefur haft kynni af grískum rithöfundum; en einkum mun hann þó hafa stundað vísindi þau, er kend voru í skólum Gyðinga; var honum því á æskuárum

sínum komið til Jerúsalem og nam hann þar fræði þá, er hinn vitri Gamalíel kendi lærisveinum sínum.

Þá er Pall dvaldi í Jerúsalem var það, að postularnir tóku til að boða kristna trú; fylltist hann þá vandlætingu fyrir trú feðra sinna, ėr honum þótti hin nýja kenning vilja brjóta niður, og æsti til ofsóknar gegn þeim, er tekið höfðu kristna trú; var hann viðstaddur við líflát Stefáns píslarvotts og lèt vel yfir því; ofsótti hann kristna menn í Jerúsalem svo ákaft, að hann gekk inn í hús manna og dró þaðan menn og konur og seldi í varðhald; stóð þeim hinn mesti geigur af honum; leituðu margir kristnir menn þá burt úr Jerúsalem til annara staða, er þeir gætu verið óhultir á; Páll fór þá til æðsta prestsins og fèkk hjá honum brèf til Damaskusborgar á Sýrlandi og heimild til að taka höndum og flytja til Jerúsalem hvern, er hann kynni að finna þar, sem tekið hefði hina nýju trú. Lagði Páll svo á stað, en er hann nálgaðist Damaskusborg leiptraði skyndilega um hann ljós af himni og hann fèll til jarðar; heyrði hann þá rödd segja við sig: Sál! Sál! hví ofsækir þú mig? en hann sagði: herra, hver ert þú? röddin svaraði þá: Eg er Jesús, sem þú ofsækir; erfitt verður þèr, að spyrna á móti broddunum; þvínæst bauð Jesús honum að fara til Damaskus og þar mundi honum verða sagt, hvað hann ætti að gjöra; en er Páll stóð upp sá hann engan. Í Damaskus var trúaður maður einn að nafni Ananías; honum sagði Drottinn að fara og leggja hendur sínar yfir Pál, þareð hann væri útvalið verkfæri sitt, til að bera nafn sitt fram fyrir heiðnar þjóðir; Ananías gjörði sem Drottinn bauð; fèkk Páll þá aptur sjón sína og fylltist heilögum anda, og var hann svo skírður. Upp frá þessu var Páll sem annar maður; hin mikla

vitrun hafði sannfært hann um sannleika þeirrar trúar, er hann áður hafði ofsókt, og vitnaði hann síðan einatt til hennar, sem óhrekjandi sönnunar fyrir hinni guðdómlegu köllun sinni, til að boða evangelíum Jesú Krists.

Eptir að Páll hafði tekið skírn, fór hann til Arabalands og dvaldi þar um hríð; hefir hann án efa varið þeim tíma til að styrkja sig og staðfesta í hinum nýja lærdómi, er hann hafði meðtekið, og undirbúa sig undir hið mikla ætlunarverk sitt, að boða kristindóminn meðal heiðíngjanna; síðan snèri hann aptur til Damaskusborgar og tók að boða þar evangelíum; en er Gyðíngar þeir, er þar bjuggju, hófu ofsókn gegn honum, forðaði hann lífi sínu með því að halda þaðan til Jerúsalem; en er hann var þangað kominn, tók Barnabas kristniboði hann að sèr og skýrði lærisveinunum frá, hver breyting væri komin á hann; dvaldi hann þá um stund hjá þeim og kendi með djörfung í Jesú nafni; síðan fór hann til fæðingarborgar sinnar Tarsus og settist þar um kyrt.

Svo sem áður er getið flýðu margir kristnir menn burt úr Jerúsalem í ofsókn þeirri, er hófst eptir dauða Stefáns; nokkrir þeirra fóru til Antiokkíu; það var mikil borg og auðug norðan til á Sýrlandi; boðuðu þeir þar kristna trú og varð mikið ágengt; myndaðist þar smásaman fjölmennur söfnuður; og er það frèttist til Jerúsalem, var Barnabas sendur þangað til að sjá um söfnuðinn og efla hann; en er Barnabas hafði dvalið nokkra stund í Antíokkíu, fór hann til Tarsus að finna Pál; fèkk hann svo Pál með sèr til Antíokkíu og voru þeir þar árlangt; vóx söfnuðurinn þá mjög og styrktist í trúnni; þar tóku menn fyrst að kenna sig við Krist og nefna sig kristna til aðgreiningar frá þeim, er fylgdu setning-

um Mósis; lýsti það sèr og brátt, að kristileg hluttekning í kjörum trúarbræðra sinna var ríkjandi hjá söfnuðinum, því þá er hallæri vofði yfir, skutu Antíokkíumenn fè saman til styrktar bræðrunum í Jerúsalem og sendu þá Pál og Barnabas með það. En er þeir voru komnir aptur til Antíokkíu, hóf Páll hina fyrstu kristniboðsferð sína þaðan.

Um þær mundir er Páll postuli hóf kristniboð sitt, voru Rómverjar ráðandi yfir flestum þeim þjóðum, er þá voru kunnar; hlaut það mjög að styðja kristniboðið, að lönd þeirra voru hvervetna vel friðuð og samgöngur greiðar; af íbúum ríkisins nutu þeir, er rómverskan borgarrètt höfðu, ýmsra rèttinda framyfir aðra menn; þar á meðal var það, að þeim mátti eigi refsa með líkamlegri refsingu og að þeir gátu ónýtt hvern dóm, er kveðinn var upp yfir þeim í skattlöndunum, með því að skjóta máli sínu til keisarans í Rómaborg.

Í fornöldinni tóku Grikkir öllum öðrum þjóðum fram að mentun, listum og vísindum; eptir að Rómverjar höfðu lagt þá undir sig, breiddist mentun Grikkja út yfir allt Rómaríki og grísk túnga var töluð í miklum hluta þess. Vísindi Grikkja höfðu smámsaman eytt trúnni á hina fornu guði, er byggð var á þjóðsögum og æfintýrum, og vantrú þeirri, er þannig var komin upp í miklum hluta heimsins, var samfara hin mesta lèttúð og siðaspilling; höfðu þó ýmsir af spekingum Grikkja bent á hið guðlega eðli mannlegs anda og tekið fram helgi skyldunnar, er samvizkan bæri vott um; þetta hlaut að vekja þrá eptir æðri opinberun hjá mörgum alvörugefnum manni og þannig að greiða veg kristniboðsins.

Eptir herleiðinguna hèldu Gyðingar að vísu jafnan

fast við trú sína og þjóðsiðu, og greindu sig nákvæmlega frá öllum öðrum þjóðum, en samt sem áður hikuðu þeir þó eigi við, að taka sèr bústað víðsvegar í útlöndum, og á dögum Páls postula voru Gyðingar búsettir í hverri stórri borg um allt Rómaríki; fyrir því voru heiðingjarnir eigi með öllu ókunnugir hinum almáttuga skapara himins og jarðar og hinu heilaga lögmáli hans; þetta hlaut því að styðja að kristniboðinu meðal þeirra, jafnvel þó Gyðingarnir einatt væru hinir mestu óvinir þess.

Af því sem hèr er sagt, má sjá, að eptir Guðs alvísu ráðstöfun var það margt, er studdi að því, að kristniboðið hefði mikinn árangur hjá heiðingjunum; en einkum hafði Páll postuli í fyllsta mæli þá sèrstöku hæfilegleika, er gjörðu hann fremur öllum hinum postulunum að útvöldu verkfæri í Guðs hendi til að snúa heiðingjum til trúarinnar á Jesúm Krist. Páll postuli var að eðlisfari kjarkmikill og framkvæmdarsamur; það sem hann tók fyrir, því fylgdi hann fram af öllum mætti; svo ákaflega sem hann áður ofsókti Guðs söfnuð og var flestum löndum sínum fremri í fastheldni við Gyðingatrúna, svo öfluglega gekk hann fram í því, að efla og útbreiða kristindóminn, eptir að Guðs náð hafði kallað hann til þess; hann var skapmikill og hafði ákafar tilfinningar; annars mundi ræður hans eigi hafa verið svo heitar og áhrifamiklar sem þær voru. Hann var borinn og barnfæddur meðal heiðingjanna og hefur því þegar á únga aldri kynnst háttum þeirra og skoðunum; viðkynning hans við þá hefur og hlotið að leiða huga hans út yfir takmörk Gyðingaþjóðarinnar og örfa áhuga hans á því, að gjöra þá hluttakandi í Krists evangelíó; hann hafði verið settur til menta og átti því hægra með að

hrekja mótmæli þeirra, enda er þess þegar getið, er hann fyrst var með postulunum í Jerúsalem, að hann einkum hafi átt orðastað við Grikki. Hann hafði dvalið í fjölmennri verzlunarborg og víða farið; hefir hann því átt kost á, að sjá ýmsar hliðar lífsins, og vanist á að gefa gaum að því, hvernig á stóð í hvert sinn. Hann hafði við fætur Gamalíels numið alla fræði Faríseanna, og var því öðrum færari til að leiða í ljós misskilning Gyðinganna á lögmálinu og spádómunum, og þagga niður mótbárur þeirra móti kenningu hans um, að Jesús væri hinn fyrirheitni Messías. Hann hafði rómverskan borgarrètt; fyrir því gat hann hvervetna komið djarflegar fram meðal heiðingjanna og ofsóknir Gyðinga þurfti hann heldur eigi að óttast svo mjög, sem aðrir landar hans.

Þannig var þeim manni varið, er Guð hafði útvalið til að boða sitt nafn meðal heiðinna þjóða; svo sem Guð í upphafi hafði gætt hann þeim gáfum, er til þess voru lagaðar, svo hafði hann og með handleiðslu sinni á honum frá barnæsku, búið hann undir hið mikla ætlunarverk hans; síðan Kristur opinberaðist honum á leiðinni til Damaskus, hafði hugur hans allur snúist að þjónustu hins nýja Drottins síns og frelsara, og hann hafði varið mörgum árum til að styrkja sig og staðfesta í hinni nýju trú, svo að hinar miklu náttúrugáfur hans voru nú orðnar fullkomnaðar og helgaðar fyrir náðargáfur Heilags Anda.

Svo sem fyr er getið, hóf Páll postuli hina fyrstu kristniboðsferð sína frá Antiokkíu; voru þá í för með honum Barnabas og Markús guðspjallamaður; fóru þeir fyrst til Sýpruseyjar, og er þeir höfðu boðað trú í hinum helztu borgum eyjarinnar (Salamis og Pafus) og

snúið meðal annara landstjóranum þar, sigldu þeir til Pamfilíu; það var hèrað á suðurströnd Litlu-Asíu, vestur af Silisíu. Þar skildi Markús við þá og fór til Jerúsalem; en Páll og Barnabas hèldu áfram til Antiokkíu í Pisidíalandt; það er norður af Pamfilíu; þeir höfðu jafnan verið vanir að koma fram í samkunduhúsum Gyðinga, og svo gjörðu þeir einnig í síðastnefndri borg; höfðu orð Páls mikil áhrif einkum á menn af heiðingjaættum, er tekið höfðu Gyðingatrú; en Gyðingar risu þá upp með mótmælum og lastyrðum gegn því, er Páll kendi; Páll og Barnabas sögðu þá við þá: Guðs orð hlaut fyrst að berast upp fyrir yður, en þar þèr burtskúfið því og metið yður sjálfa ekki verðuga eilífs lífs, sjáið, þá snúum vèr oss til heiðinna manna; síðan hèldu þeir Páll til Ikoníu; sú borg var í Lýkaoníulandi; það var norður af Silisíu; þar tók mikill fjöldi manna trú, en er þeir urðu þar fyrir ofsóknum, hèldu þeir til Lýstra og Derbe í Lýkaoníu og kendu hvervetna; í Lýstra læknaði Páll haltan mann; urðu heiðingjarnir þá svo frá sèr numdir, að þeir ætluðu, að Páll og Barnabas væru guðir og vildu færa þeim fórnir, en Páll afstýrði því, og bauð þeim að snúa sèr frá hinum fánýtu skurðgoðum sínum til lifanda Guðs; nokkru síðar komu til Lýstra Gyðingar frá Ikoníu; fengu þeir þá æst lýðinn svo á móti Páli, að hann varð að flýja þaðan; í Derbe sneru þeir Páll og Barnabas aptur sömu leið til Pamfilíu; styrktu þeir á leiðinni lærisveinana í Lýkaoníu og Pisidíalandi og komu föstu skipulagi á hina nýmynduðu söfnuði; því næst sigldu þeir frá Pamfilíu og heim til Antíokkíu á Sýrlandi; og er þeir komu þangað, kölluðu þeir saman söfnuðinn, og skýrðu frá, hvernig Guð hefði fyrir þeirra hönd opnað heiðingjunum dyr trúarinnar.

Nokkru eptir að Páll var kominn heim til Antiokkíu úr hinni fyrstu kristniboðsferð sinni, komu þangað kristnaðir Gyðingar frá Jerúsalem og vöktu hina mestu deilu; kváðu þeir það vera nauðsynlegt heiðnum mönnum til sáluhjálpar, að þeir yrðu Gyðingar og fylgdu öllum setningum og siðareglum Móselaga, en mótmæltu þeirri kenningu Páls, að Kristur hafi í sínu holdi afmáð boðorðalögmálið, sem var í setningum, og að vèr yrðum rèttlættir einungis af Guðs náð fyrir trúna á Jesúm Krist. Hefðu þeir komið skoðun sinni fram, mundi kristin trú eigi hafa orðið annað en ný mynd á Gyðingatrúnni; heiðingjarnir hefðu orðið henni fráhverfir og sjálfsþótti Gyðinganna, er hrósuðu sèr fyrir Guði af verkum sínum, mundi hafa orðið ríkjandi í kristilegri kirkju. Söfnuðurinn í Antiokkíu sá, hve þýðingarmikill ágreiningur þessi var, og rèði því af, að senda þá Pál og Barnabas til postulanna í Jerúsalem, til að útvega úrskurð þeirra á málinu. Er þeir komu til Jerúsalem, var þeim vel fagnað af postulunum; því næst var fundur haldinn til að ræða málið, og var sá úrskurður lagður á það, að eigi skyldi ofþyngja kristnum mönnum með því að bjóða þeim að halda hinar ytri setningar Móselaga; við það tækifæri kváðu hinir eldri postular svo á með handabandi, að Páll og Barnabas skyldu vera postular heiðinna manna, eins og þeir postular Gyðinga. Páll og Barnabas fóru aptur til Antiokkíu með úrskurð fundarins, og varð söfnuðurinn feginn slíkum málalokum; en mikill hluti af Gyðingum þeim, er kristni höfðu tekið, undu því illa, að setningar Mósis skyldu þannig vera úr lögum numdar, og að heiðingjarnir fengju sömu hlutdeild í Guðs ríki sem Abrahams börn; fylgdu þeir svo fast fram skoðun sinni, að jafn-

vel nokkrir af hinum helztu fóru að hliðra til við þá skömmu seinna, og vildu sneiða sig hjá kristnuðum heiðingjum, er eigi höfðu tekið upp Gyðinga háttu; hikaði Páll postuli þá eigi við að finna að þessu, og tók skýrt fram, að vèr rèttlætumst eigi fyrir ytri háttsiði, heldur fyrir trúna á Jesúm Krist; samt sem áður leituðust ýmsir af hinum kristnuðu Gyðingum við að kæfa niður kenningu Páls og vöktu einatt óróa í söfnuðunum, svo að hann mátti alla æfi verjast árásum þeirra; gjörði hann þó allt, sem í hans valdi stóð til að sætta þá við sig, og fylgdi sjálfur háttum Gyðinga, þótt hann eigi teldi það nauðsynlegt til sáluhjálpar.

Nokkru eptir postulafundinn í Jerúsalem kom Páll að máli við Barnabas, og bað hann fara með sèr nýja kristniboðsferð; Barnabas lagði þá það til, að Markús yrði í för með þeim, en Páll vildi það eigi; skyldi það með þeim; fóru þeir Barnabas og Markús til Sýprusseyjar, en Páll fèkk til fylgdar við sig Sílas lærisvein og lagði svo á stað frá Antiokkíu í hina aðra kristniboðsferð sína; fór hann þá um Sýrland og Silisíu og ýms lönd í Litlu-Asíu; styrkti hann þar söfnuðina í trúnni, og efldust þeir dag frá degi; í Lýkaoníu hitti hann kristinn mann, að nafni Tímóteus; tók Páll hann í för með sèr, og varð hann seinna einhver hinn kærasti lærisveinn hans; fór Páll svo gegnum Litlu-Asíu og til Tróas; það er hèrað eitt á vesturströnd hennar; þar fèkk Páll vitrun að koma yfir til Masedoníu, og þannig barst kristniboðið til Evrópu. Páll kom fyrst til Filippíborgar í Masedoníu, og boðaði þar trú; þar varð hann fyrir ofsóknum; var Páli misþyrmt og hann settur í myrkrastofu; sýndi hann þá eigi síður þolinmæði í að bera þjáningar fyrir Krists sakir, en hann áður hafði

sýnt djörfung til að boða hans nafn; um miðnætti var Páll að biðjast fyrir og lofsyngja Guði; þá kom jarðskjálfti mikill, og varð hann tilefni til þess, að fangavörðurinn tók trú og allir hans menn; en er höfuðsmenn borgarinnar heyrðu, að maður sá, er þeir höfðu látið misþyrma, var rómverskur borgari, urðu þeir óttaslegnir, fóru vel að honum og báðu hann að fara burtu; fór hann þá um Masedoníu og til Tessaloniku; það var önnur borg í því landi; prèdikaði hann þar um pínu Krists og upprisu, og tók mikill fjöldi manna trú; en innan skamms fengu Gyðingar, er þar bjuggu, æst alþýðuna móti Páli, svo að hann varð að fara þaðan um nótt til Beróea; sú borg var og í Masedoníu; borgarmenn tóku Páli vel og rannsökuðu sjálfir ritningarnar til að vita, hvort kenningu hans bæri saman við þær; skömmu síðar varð þó Páll að leita þaðan undan ofsóknum Gyðinga; fór hann þá til Atenuborgar, aðalaðseturstaðar hinna grísku lista og vísinda, og prèdikaði þar um apturhvarf og upprisu Krists frá dauðum, en orðum hans var þar lítill gaumur gefinn; þaðan fór Páll til Korintuborgar, hinnar auðugustu og atorkumestu verzlunarborgar á Grikklandi, því hann vissi vel, að svo sem lærdómur Krists er einn fær um að upplýsa skilninginn og lypta anda mannsins til Guðs, svo getur hann einn hreinsað hug þeirra, sem önnum kafnir eru í veraldlegum sýslunum, og búið þá undir hið eilífa líf. Í Korintuborg tók Páll til handiðnar sinnar, en kendi þó stöðugt og varð mikið ágegnt; að vísu kærðu Gyðingar hann fyrir landstjóranum fyrir að hann prèdikaði ólöglega guðsdýrkun, en landstjórinn vildi eigi hlýða á mál þeirra, enda var það siður Rómverja um þessar mundir að leiða sem optast hjá sèr ágreining manna um trú-

arefni. Um þetta leyti skrifaði Páll brèf sín til Tessalonikumanna til að leiðbeina hinum nýstofnaða söfnuði þar og hughreysta hann. En er Páll hafði dvalið allengi í Korintuborg fór hann þaðan til Efesus, mikillar borgar á vesturströnd Litlu-Asíu, og síðan til Jerúsalem; á þeirri leið mun hann hafa komið við á Krítarey og skilið þar eptir Títus lærisvein sinn til að skipa fyrir um stjórn safnaðanna; í Jerúsalem dvaldi Páll skamma stund, en fór þaðan heim til Antiokkíu og hafði hann nú lokið hinni annari kristniboðsferð sinni.

Innan skamms hóf Páll hina **þriðju** kristniboðsferð sína frá Antiokkíu; fór hann þá um Galataland og Fryggíu í Litlu-Asíu og styrkti hvervetna söfnuðina; síðan hèlt hann til Efesusborgar; þar kendi Páll í meira en 2 ár; óx orð Drottins og eflðist kröptuglega fyrir munn hans og breiddist út víðsvegar um löndin þar í grend; frá Efesus ritaði Páll brèf sitt til Galatamanna og fyrra brèfið til Korintumanna, til að eyða flokkadráttum, er komið höfðu upp í söfnuðunum; í Efesus var musteri eitt helgað gyðjunni Díönu; var það meðal hinna mestu skrautbygginga í fornöld, og höfðu smiðir margir atvinnu af því að smíða líkneski til þess; en er kenning Páls hafði svo mikinn árángur, að við sjálft lá, að Díönudýrkunin mundi gjöreyðast, þá vakti Demetríus nokkur silfursmiður uppþot mikið í borginni; fyrir því fór Páll þaðan og yfir til Masedoníu; þaðan ritaði hann hið fyrra brèf sitt til Tímóteusar, og seinna brèfið til Korintumanna; en skömmu siðar fór hann sjálfur til Korintuborgar; þar dvaldi Páll í 3 mánuði og ritaði brèf sitt til safnaðar þess, er myndast hafði í Rómaborg; síðan sneri Páll aptur við og hèlt áleiðis til Jerúsalem með gjafir frá söfnuðunum í Grikklandi og Masedóníu.

Á leiðinni kvaddi hann öldungana í Efésus með hjartnæmri skilnaðarræðu; tók hann það fram, að nú mundu þeir sjá sig í síðasta sinni, og áminnti þá með mörgum fögrum orðum, um að hafa gát á sèr og söfnuðunum eptir burtför sína; lögðu þeir þá höndur um háls Páli og kvöddu hann grátandi; á leiðinni var Páll víða varaður við, að fara til Jerúsalem, þar eð Gyðingar hefðu hið mesta hatur á honum. en Páll kvaðst vera reiðubúinn til þess, jafnvel að deyja fyrir nafn Drottins Jesú. Þá er Páll kom til Jerúsalem, tóku postularnir honum feginsamlega og vegsömuðu Drottinn fyrir það, er hann hafði framkvæmt meðal heiðinna þjóða. En er Páll nokkrum dögum síðar, var staddur í musterinu, sáu hann Gyðingar frá Litlu-Asíu; æstu þeir lýðinn svo að hann dró Pál út úr musterinu og vildi fyrirfara honum, en hinn rómverski hershöfðingi, er bjó í Jerúsalem, frelsaði hann úr höndum þeirra; skömmu síðar fèkk hershöfðinginn að vita, að 40 Gyðingar hefðu tekið sig saman um að ráða Pál af dögum; sendi hann þá með Pál til Sesareu til landstjórans, er Felix hèt; þar sat Páll í fángelsi í 2 ár; ásökuðu Gyðingar hann sífellt fyrir Felixi, eptirmanni hans Festusi og Agrippa konungi; varði Páll sig jafnan með mikilli mælsku og andagipt, en varð þó eigi laus að heldur; loksins skaut Páll máli sínu undir dóm keisarans í Rómaborg og var hann því sendur þangað.

Skipinu, er Páll fór með, gaf illa og er þeir láu við Krítarey í höfn þeirri, er Góðhafnir nefndust, rèði Páll til að hafa þar vetrarsetu; samt sem áður lagði skipið á stað, en hreppti ofviður mikið, svo að skipverjar töldu sèr bana vísan, en Páll hughreysti þá og sagði þeir mundu allir komast af heilir á hófi, eins og

síðar rættist; ferðin gekk seint, en loksins nálgaðist Páll Rómaborg, og er kristnir menn, sem þar bjuggu, vissu það, fóru þeir móti honum og fögnuðu honum; þá er Páll var kominn til Rómaborgar, var hann afhentur þar foringja lífvarðarins; lèt hann einn hermann gæta hans; en að öðru leyti var honum leyft að boða guðsríki, og kendi Páll með allri djörfung um Drottinn Jesúm; liðu svo 2 ár. Meðan Páll sat í Rómaborg, ritaði hann brèf sín til Efesusmanna, Filippímanna, Kólossamanna (sú borg var í Litlu-Asíu), hið síðara brèf til Tímóteusar og brèfin til Títusar og Filemons.

Um æfi Páls eptir þetta vitum vèr ekkert með fullri vissu; en eptir því sem fornar sagnir segja, þá losnaði hann úr varðhaldinu nokkru seinna, og fór þá enn eina kristniboðsferð; er þess jafnvel getið, að hann hafi boðað trú á Spáni, eins og hann hafði í hyggju, er hann skrifaði brèfið til Rómverja; síðar er þó mælt, að hann hafi komið aptur til Rómaborgar og látið þar líf sitt fyrir evangelíum Jesú Krists á ofanverðum dögum Nerós keisara.

Það sem einkum skín út úr hugarfari Páls postula er sjálfsafneitun, undirgefni undir guðs vilja og framkvæmdarsöm mannelska. Öll æfi hans, eptir að hann varð snortinn af Guðs náð og snèrist, var helguð Guði. En að helga líf sitt Guði er ekki innifalið í því að draga sig út úr heiminum, heldur í því að efla heillir annara manna, og þetta hafði postulinn sífellt fyrir augum og lèt það vera mark og mið allra gjörða sinna. Hann tók innilegan þátt í annara kjörum, og leitaðist einnig við að bæta úr tímanlegri neyð þeirra, sem vèr meðal annars sjáum af því, hve annt honum var um að safna gjöfum handa nauðstöddum kristnum mönnum í Jerú-

salem; eins sjáum vèr, að hann var vinveittur vísindalegri mentun; en um fram allt lèt hann sèr umhugað um að efla andlega og eilífa farsæld sálnanna, því að hann fann, að sú velvild, sem ekki nær til andlegrar þarfar og frelsis þeirra, nær skammt og dregur ekki lángt á leið. Í allri breytni sinni við aðra, stjórnaðist hann af brennandi laungun eptir að frelsa sálir manna, og þessi mannelska hans náði ekki einungis til «bræðra hans eptir holdinu», heldur til allra manna, og því leitaðist hann við að vera öllum allt í öllu, og skoðaði alla menn sem bræður og systur í Jesú Kristi og þessa viðleitni sína kallaði hann ekki velgjörning af sèr, heldur skuld, er hann ætti öllum að gjalda. Þessa skuld áleit hann ekki borgaða til fulls með því, að fá aðra til að taka kristna trú; sú sama mannelska, sem kom honum til að leiða sálirnar úr myrkrinu inn í ljósið, þrýsti honum einnig til að ala önn fyrir kristilegri uppfræðingu þeirra og vera jafnan reiðubúinn til að leggja lífið í sölurnar fyrir þær. En aðal einkenni Páls andlega lífs var líf hans í Kristi; hann var rèttlættur og helgaður fyrir trúna á Krist og Krists andi bjó í honum, svo að hugarfari hans verður ekki lýst nema líf hans í Kristi sè fyllilega tekið til greina; það gaf öllum gjörðum hans einkennilegan blæ. Sjálfsafneitun, mannelska og hlýðni hans við Guð, var ólík þessum dyggðum hjá hinum fornu guðsmönnum Gyðíngaþjóðarinnar og ólík því, sem nokkur heiðingleg dyggð getur komið til leiðar; en sèrhver eiginlegleiki hans var gagntekinn af Krists anda. Þegar hann talar um sjálfsafneitun, mannelsku og hlýðni við Guð, þá er Kristur undirrót þessara dyggða; «Krists kærleiki þvíngaði hann»; «það, sem hann lifði, lifði hann Kristi» og «líf hans og dauði

miðaði til þess, að gjöra Krist dýrðlegan». Af þessum stofni spratt hans guðrækilega líf, og því bar það svo mikin og fagran ávöxt, til eilífs lífs, bæði fyrir hann sjálfan og heilar þjóðir, og um ókomnar aldir mun trúarlíf þessarar óviðjafnanlegu trúarhetju verða fögur fyrirmynd, fyrir alla þá, sem vilja heyra Kristi til, þótt fæstir geti náð fótsporum þessa mikla postula.

---

# Jóhannes Krysostomus.

Krists heilaga líferni er sú algjörða fyrirmynd, sem vèr syndugir menn eigum að líkjast og laga líferni vort eptir; hans heilagi lífsferill er sú leiðarstjarna, sem á að lýsa og leiðbeina oss á þessari jarðnesku vegferð vorri. En jafnframt er það næsta lærdómsríkt fyrir oss og miðar til að styrkja trú vora, að virða fyrir oss æfir þeirra manna, sem hafa barizt hinni góðu baráttu trúarinnar, og unnið sigur yfir sjálfum sèr og heiminum og um leið verið útvalin verkfæri í hendi Drottins til að útbreiða hans ríki hèr á jörðu.

Með þessháttar mönnum má telja Jóhannes Krysostomus kirkjuföður. Hann er svo merkur og nafntogaður maður í sögu kristilegrar kirkju, að gjöra má ráð fyrir, að mörgum muni þykja fróðlegt að kynna sèr æfisögu hans.

Jóhannes, sem kallaður var *Krysostomus*, eða gullmunnur, sakir málsnildar sinnar, var fæddur í Antíokkíu á Sýrlandi hèr um bil 347 árum eptir Krists burð. Faðir hans hèt Sekúndus og var riddaraliðs foringi, en móðir hans hèt Antúsa. Föður sinn misti hann í æsku, og næst Guði er það móður hans að þakka, að hann varð svo mikill og nafnfrægur maður. Móðir hans varð ekkja um tvítugsaldur, en vildi aldrei giptast aptur, heldur varði öllu lífi sínu til að uppala og menta son sinn; en umfram allt lèt hún sèr annt um að innræta honum þekkingu á kristindóminum og elsku til Krists.

Í þann tíma var Antíokkía talin einhver hin helzta og mentaðasta borg á austurlöndum; en einna merkilegust þykir oss hún af því, að Páll postuli hafði þar við og við aðsetur sitt. þaðan hófu þeir Páll og Barnabas kristniboðsferðir sínar. Þaðan fóru þeir til að styrkja bræður sína í trúnni í nálægum þorpum og hèruðum, og þar fengu lærisveinar þeirra fyrst það nafn, er vèr berum og voru kallaðir *kristnir*. Af íbúum Antíokkíu, sem voru að tölu tvö hundruð þúsundir, var allur helmingur heiðingjar og því óttaðist Antúsa fyrir því, að illt eptirdæmi og illir siðir þeirra mundu spilla syni sínum; og hún vildi ekki, að hann skyldi alast upp í því iðjuleysi og þeirri fáfræði, sem þá var svo tíðkanleg meðal æskumanna þar í bænum, heldur var henni um það hugað, að þær gáfur og þeir hæfilegleikar, sem Guð hafði gefið honum, gætu fullkomnast sem mest svo hann gæti komið því meiru góðu til leiðar í Drottins þjónustu. Frá blautu barnsbeini vandi hún hann á að lesa guðsorð í heilagri ritningu, og leiðbeindi honum í að skilja það og fá mætur á því, og því gat hann á fullorðins árunum borið um það af eigin reynslu, hve blessunarfull áhrif það hefir á börnin að venja þau snemma við að lesa í biflíunni. Þegar kristileg trú þannig var orðin djúpt rótfest í hjarta hans, sendi móðir hans hann í skóla til Líbaníus, sem var nafntogaður mælskumaður í Antíokkíu, og fanst honum brátt mikið í hann varið. Líbaníus var ekki einungis heiðingi, heldur og hinn mesti mótstöðumaður kristindómsins. Þegar hann þó sá, hvílíka móðurást Antúsa sýndi syni sínum, mælti hann við lærisveina sína: „sjáið, hvílíkar konur eru til meðal kristinna manna», og þegar hann löngu seinna var spurður að, hver ætti að vera eptirmaður hans í stjórn

skólans, svaraði hann: »Krýsostomus, væri hann ekki kristinn». Krýsostomus unni móður sinni hugástum og þau bjuggu lengi saman án þess að hafa mikil mök við aðra út í frá; hann var hennar einasta yndi og gleði og hún gjörði sèr vissa von um, að hann mundi verða útvalið verkfæri í Guðs hendi til að útbreiða hans ríki. Þótt hún því hafi haft gleði af hans ágætu eiginlegleikum, hefir hún þó líklega haft raun af því, að hann lagði lög fyrir sig og gjörðist málaflutningsmaður, því að flestir málaflutningsmenn þar voru óhlutvandir og neyttu allra bragða til að vinna mál sín og var hætt við, að hann kynni að draga dám af þeim, þar sem hann var í svo miklu áliti, þótt hann enn væri ungur, að fjöldi manna fèkk hann til að flytja mál sín. En Míletíus, biskup í Antíokkíu, tók hann að sèr og brýndi jafnan fyrir honum þau guðlegu sannindi, sem hann í barnæsku hafði numið, og þannig styrktist trú hans meir og meir, og Guð gaf honum náð til að breyta eptir henni. Hann fèkk brátt óbeit og andstyggð á rangsleitni dómendanna og ásetti sèr því að hætta málaflutningum, og þannig afsalaði hann sèr fyrir Krists sakir, að eins 18 vetra gamall, allri veraldlegri tign og metorðum. Hann varði enn 3 árum til að nema kristileg fræði og fèkk tilsögn hjá Míletíus biskupi, en bjó hjá móður sinni, og hafði mest samneyti við hana og vin sinn, er Basilíus hèt. Þegar þessi 3 ár voru liðin, var hann skírður.

Þeir tímar voru svo ólíkir vorum tímum, að vèr eigum bágt með að geta því nærri, hvernig ástatt var fyrir Krýsostomus. Þótt hundrað þúsund kristnir menn væru í Antíokkíu, var þar þó ekki nema ein kirkja og því þurfti þar færri presta við en á vorum dögum. En

þótt öðruvísi hefði verið á statt, áleit Krýsostomus skyldur kristinna presta svo háleitar, en hafði svo lítið traust á sjálfum sèr, að hann hefði ekki unnið það fyrir nokkurn mun, að takast svo ábyrgðarmikið embætti á hendur. Vegna hinnar miklu siðaspillingar í Antíokkíu fèkk hann óbeit á að vera þar, og stakk því upp á því við Basilíus vin sinn að fara með sèr upp í óbyggðir og setjast þar að, til þess að geta þjónað Guði því betur í einverunni; en fyrir bænastað móður sinnar varð hann þó kyrr hjá henni. það var líka vissulega skylda hans, að elska móður sína og endurgjalda henni þá móðurást, sem hún hafði sýnt honum frá blautu barnsbeini; hann eyddi ekki heldur tímanum í iðjuleysi, heldur varði hverjum degi til að biðjast fyrir og lesa í biflíunni, og með því varð hann henni svo handgenginn og aflaði sèr þeirrar yfirgripsmiklu þekkingar á inntaki hennar, sem öll rit hans bera með sèr. Á þessum ýngri árum hafði Krýsostomus ýmsar skoðanir, sem hann seinna hvarf frá og sleppti; þannig hèlt hann, að hann ætti að pinta líkama sinn sem mest, og talaði stundum ekki eitt orð allan daginn, eða vildi ekki tala við aðra en Basilíus, sem þá var orðinn múnkur og kom stundum til bæjarins til að tala við vin sinn. Krýsostomus fèkk nokkra skólabræður sína til að hætta við að lesa lögfræði og meðal þeirra var Theodoretus, sem varð einhver bezti vinur hans. Um þessar mundir var Miletíus biskup rekinn úr bænum af því að hann prèdikaði Krists lærdóm, og í hans stað var kominn kennari nokkur, sem neitaði guðdómi Krists; en Diodorus prestur safnaði að sèr fáeinum mönnum, sem enn hèldu fast við hina sönnu trú og þýddi fyrir þeim guðsorð; í tölu þeirra var Krysostomus.

Menn vita ekki með vissu, hvenær Antúsa sálaðist; þó eru líkur til, að hún hafi dáið ár 374, og það ár yfirgaf Krýsostomus Antíokkíu, og varð munkur. Tildrögin til þess voru þau, að hann einhvern dag var á gangi með Theodoretus vini sínum fram með Orontesfljótinu til kirkju þeirrar, er kristnir menn komu saman í til guðsþjónustugjörðar; sá þá Krýsostomus eitthvað hvítt, er hann hèlt, að væri lín, fljóta ofan eptir vatninu, en er hann náði því. sá hann, að það var pappír; urðu þeir þá þess vísir, að þetta var galdraskrudda, sem það þókti ódæði að hafa meðferðis, og er dáti nokkur í því sama gekk þar fram hjá, var þeim búin hin mesta hætta, en þeim tókst þó að fela skræðuna og fleygja henni frá sèr án þess á bæri; hefði hún fundist hjá þeim, mundi það hafa kostað líf þeirra.

Þetta fèkk mikið á Krýsostomus, og honum fanst lífið vera fullt af mæðu, þegar einber tilviljun gæti bakað honum slíka hættu. Hann ásetti sèr því að fara burt úr bænum og flytja upp í óbyggðir þar sem hann óhultur gæti þjónað Guði sínum. Klaustrin voru þá allt öðruvísi löguð en þau urðu seinna og hefir Krýsostomus greinilega lýst lifnaðarháttum þeirra, er þar bjuggu. Margir fundu þar frið og hæli og komust þannig hjá þeim freistingum, sem býlífið hefir í för með sèr. Munkarnir vörðu tímanum til að skrifa upp biflíuna, eða til að ríða körfur og sumir sögðu til börnum, sem tímum saman var komið fyrir til kennslu hjá þeim úr bænum. Munkar þessir fóru á fætur um apturelding, og er þeir höfðu haldið bænir og sungið sálm, fór hver þeirra til vinnu sinnar. Fæða þeirra var vatn og brauð; fötin voru stórgerð og rúmin hörð,

og þeir töluðust ekki við á daginn, fyrr en þeir komu saman á kveldin.

Þannig lifði Krýsostomus í 4 ár, og að þeim liðnum flutti hann í helli nokkurn og var þar 2 ár sem einsetumaður; var hann þá orðinn heilsulaus af vökum, föstum og meinlætalifnaði, svo að hann varð að snúa aptur til Antíokkíu. Seinna játaði hann það opinberlega, að sèr hefði sèst yfir í því að kvelja þannig sjálfan sig og það er gleðilegt, að hann þrátt fyrir þennan lifnaðarhátt gat í mörg ár þar eptir starfað til að efla guðsríki og útbreiða Krists kirkju.

Þegar Krýsostomus kom aptur til Antíokkíu var búið að setja vin hans og kennifoður Míletíus biskup aptur inn í embætti sitt og honum tókst að vinna Krýsostomus til að verða djákna sinn, og var hann vígður til þess embættis hèr um bil árið 380. Þá var það ekki algengt, að djáknar prèdikuðu, heldur vitjuðu þeir sjúkra, útbýttu gjöfum meðal fátækra og báru umhyggju fyrir tímanlegum þörfum samkristinna bræðra. Þeir urðu því gagnkunnugir ástandi og lifnaðarháttum margra kristinna manna, og vèr sjáum, að Krýsostomus þessi árin hefir tekið saman margar ritgjörðir um það, sem fyrir hann kom, og þær bera það með sèr, hve nákunnugur hann var heilagri ritníngu, því hann sannar og skýrir allt með greinum og dæmum úr henni, og eins hitt, hve innilegan þátt hann tók í annara kjörum. Eitt af sóknarbörnum hans var úngmenni nokkurt að nafni Stagiríus, sem var þjáður af þúnglyndi, er virtist vera ólæknandi, og voru menn á þeim tímum alment svo hjátrúarfullir, að þeir kendu þesskonar veikindi vondum öndum og kölluðu hann djöfulóðan; en hann hugsaði um að fyrirfara sèr til að losast við þjáningar sínar.

Krýsostomus ritaði honum mörg brèf, og leitaðist við að leiðrètta þessa röngu ímyndun og leiða hann að hinum himnesku huggunarlindum. Meðal annars sagði hann, að sá einn væri djöfulóður, sem væri þræll syndarinnar; þessu næst leiddi hann honum fyrir sjónir, að mótlætingarnar sèu ekki reiðiteikn, heldur elskumerki Guðs og minnti hann á, hvernig margir Guðs vinir í heilagri ritníngu hafi orðið að þola þúngar þrautir og sèr í lagi Drottinn vor og Frelsari, sem sampíndist vorum eymdum; hann bað sjúklínginn að temja sèr þessar hugleiðingar, en umfram allt að biðja Guð opt og iðuglega og sýndi honum, hvernig Davíð sigraðist á öllum freistíngum og mæðu með stöðugri og innilegri bæn til Guðs.

Rúmið leyfir oss ekki að tína saman fleiri atriði úr þeim ritgjörðum, sem Krýsostomus samdi á æskuárum. Þó þær jafnist ekki við hinar, sem hann seinna tók saman, lýsa þær þó allar hans einlægu og innilegu guðrækni og þeirri sannkristilegu andagipt, sem hann var gæddur.

Meðan hann var djákni hafði hann ekki færi á að sýna mælsku sína sem prèdikari; en árið 386 var hann vígður prestsvígslu af Flavían biskupi í Antiokkíu. Var hann þá orðinn svo frægur af ritum sínum, að múgur og margmenni þyrptist saman til að heyra hann prèdika í fyrsta sinni. En því fór svo fjærri, að hann ofmetnaðist af þeirri hylli, sem hann hafði áunnið sèr, að hann með sannri auðmýkt óttaðist fyrir, að hann væri ekki fær um að gegna til hlítar þessu ábyrgðarfulla og vandasama embætti sínu og hann bað söfnuðinn að biðja Guð með sèr um að gefa sèr náð til þess, því án hans aðstoðar megnaði hann ekkert. Upp frá

því var hann vanur að prèdika tvisvar í hverri viku, sem sè: á laugardögum og sunnudögum, því að það var venja að messa báða þessa daga. Stundum var hann sendur lángar leiðir til að halda þar guðsþjónustugjörð snemma á morgnana og þegar hann kom aptur, varð hann opt samdægurs að messa heima hversu þreyttur sem hann var. Ræður hans voru ekki einungis fagrar og fjörugar, heldur og að efninu til sannkristilegar og hann tók jafnan fram þá þörf, er vèr höfum á að iðrast og bæta ráð vort og það frelsi, sem oss er afrekað með Krists friðþægjandi dauða og sem hans andi verður að gjöra oss hluttakandi í, og eins sýndi hann, hve gagnslaust það er að sækja helgar tíðir, nema vèr förum þángað til að biðja Guð með iðrandi og trúuðum hjörtum. Ræður hans báru það bezt með sèr, hve mikið var varið í hans djúpsettu þekkingu á heilagri ritningu og í þessa guðlegu uppsprettu sótti hann mjög mikið. Hann lagði út af ræðutextum sínum á svo margvíslegan hátt og í prèdikunum hans var svo mikil fjölbreytni, að enginn gat orðið þreyttur af að hlýða á þær, þótt hann ávalt snèri aptur til hinna sömu höfuðlærdóma. Hann vakti athygli áheyrenda sinna á sèrhverjum trúar- og siðalærdómi og prèdikanir hans þykja enn í dag heyra til hinna beztu skýringa biflíunnar. Það er sagt, að hann hafi þýtt alla ritninguna á prèdikunarstólnum og enn eru til eptir hann 75 ræður út af 1. Mósesbók og jafnmargar út af Davíðs sálmum, 77 út af spámönnunum, 54 út af postulanna gjörníngum og 244 út af brèfum þeirra. Þar að auki eru enn til eptir hann fjölda margar tækifærisræður og sýnir allt þetta hans óþreytandi iðjusemi, sem er því aðdáanlegri, sem hann að minnsta kosti

framan af skrifaði upp allar ræður sínar áður en hann flutti þær og vandaði þær sem mest.

Nokkru eptir að Krysostomus var orðinn prestur varð sá atburður í Antíokkíu, að hann þurfti á öllu sálarþreki sínu að halda. Um vorið 387 lagði keisarinn á svo mikla skatta, að alþýða gat ekki risið undir þeim og æstist hún enn meir af hörku og vægðarleysi tollheimtumannanna, svo að hún loksins gjörði uppreist, braut líkneskjur keisarans og sonar hans, er stóðu á torginu og saung níðvísur um hann og ættíngja hans; síðan bar múgurinn eld að húsum hinna heldri manna; en hermenn gátu slökkt eldinn, áður en mjög mikið tjón varð að því. Uppreistin varð skjótt bæld niður og allir drepnir, ungir og gamlir, sem eitthvað voru við hana riðnir; en bæjarmenn biðu eptir því titrandi af hræðslu, hvernig Theodosius keisara mundi verða við þetta, því að hann var bráður og uppstökkur maður og mátti óttast fyrir, að hann mundi láta brenna borgina að köldum kolum. Loksins tókst Flavían biskup ferð á hendur til Miklagarðs til að sefa reiði keisarans fyrir hönd bæjarmanna, sem hver um annan þveran flúðu burt úr borginni. Þó hèldu flestallir kristnir menn, sem þar voru, kyrru fyrir og söfnuðust saman í kirkju sinni til að biðja Guð að afstýra hinni yfirvofandi hegningu. Þegar Krysostomus sá, að hugir manna voru farnir svo að spekjast, að þeir mundu geta tekið einhverjum sönsum, stè hann í stólinn og talaði til þeirra orð huggunarinnar, en áminti þá jafnframt um að iðrast ávirðinga sinna og leiddi þeim fyrir sjónir, að Antíokkía hefði unnið til guðlegrar hegningar fyrir hinar mörgu syndir sínar og að þeir þyrftu því að nálgast Drottinn með iðrandi hjörtum og einlægum betrunaráformum. Hann

setti þeim einnig fyrir sjónir dæmi hins aldurhnigna Flavíans biskups, sem hefði tekizt þessa hættulegu ferð á hendur af elsku til bræðra sinna og til að breyta eptir Frelsara vorum, sem lèt lífið fyrir oss alla.

Lengi var það óvíst, hverjum kostum bærinn yrði að sæta; en loksins gat Flavían með bænum sínum komið því til leiðar, að nokkuð var dregið úr hegningunni. Þó varð ekki hjá því komist, að nokkrir af hinum helztu bæjarbúum voru settir í varðhald og áttu þeir að bíða þar eptir úrskurði keisarans, en sumir voru gjörðir útlagir. Krysostomus kendi mjög í brjósti um þá og lagði ríkt á við söfnuðinn að biðja Guð fyrir þeim. «Látum oss», sagði hann, «án afláts þakka Guði fyrir miskunsemi hans bæði fyrr og nú og grátbænum hann um, að bandingjarnir verði látnir lausir og að hinum útlægu mönnum verði leyft að snúa heim aptur», og fór hann mörgum fögrum orðum um kristilega bróðurást og þá skyldu vora að taka innilega hluttdeild í kjörum náúnga vors.

Þessi vandræði og þær mannelskufullu tilraunir, sem kristnir menn gjörðu til að bæta úr þeim, komu mörgum heiðingjum til að kynna sèr þau trúarbrögð, sem þeir sáu, að báru svo góðan ávöxt og allmargir þeirra tóku kristni. Krýsostomus gaf stöðugt gætur að þessum nýkristnuðu bræðrum og lèt sèr annt um að uppfræða þá í kristilegri trú. Með sínum alvarlegu en þó svo blíðu áminningum á tíma neyðarinnar varð hann mjög vinsæll í Antiokkíu og hylli hans og álit fór dagvaxandi í þau 12 ár, sem hann dvaldi þar. Hann unni líka söfnuði sínum og vildi helzt lifa og deya hjá honum; en Guð ætlaði honum að komast í aðra stöðu. Svo bar til, að Evtropíus, vildarmaður og ráðgjafi keis-

arans kom til Antiokkíu og heyrði Krýsostomus prèdika og fyrir tillögur hans var hann af Arkadíus keisara skipaður erkibiskup í Miklagarði. En af því að menn óttuðust fyrir, að það mundi verða upphlaup í Antiokkíu, þegar lýðurinn vissi, að það ætti að svipta sig sínum ástkæra kenniföður, var honum boðið að mæta sendimönnum keisarans fyrir utan borgarhliðið og þar var hann settur upp í vagn og farið með hann til Miklagarðs.

Að undanteknum ættmönnum keisarans var nú enginn honum jafn að tign í öllu ríkinu og nokkrir merkilegir viðburðir urðu til þess, skömmu eptir að hann kom til Miklagarðs, að gjöra málsnilld hans alkunna í höfuðborginni og auka orðstýr hans. Jarðskjálfti og vatnsflóð, sem kom hvað á fætur öðru, gaf honum tækifæri til að sýna þann undursamlega krapt, er fylgdi orðum hans til að fá á hjörtu áheyrendanna. Þegar hann átti að prèdika, þusti múgur og margmenni að kirkjunum og Evdoxía keisaradrottníng kepptist á við Evtropíus ráðherra í því, að dáðst að kenníngu hans og votta honum virðíngu sína.

Krýsostomus lèt sèr óvenjulega annt um kristniboðið og einkum reyndi hann með óþreytandi áhuga til að kristna Gautana, lèt byggja kirkju handa þeim og snúa heilagri ritningu á gotnesku.

Margur mundi nú hafa ofmetnast af allri þeirri vegsemd og því lofi, sem Krýsostomus varð fyrir úr öllum áttum eða unnið það fyrir hylli höfðíngjanna að draga úr sannleikanum og taka lint á yfirsjónum þeirra; en hann hafði snemma lært að oftreysta ekki höfðíngjahylli, enda veik hann ekki eitt fótmál af vegi skyldu

sinnar heldur kendi sannleikann með djörfúng og fullri einurð.

Í þann tíma var mikið óhóf og munaðarlíf í Miklagarði og margir, sem áttu að heita kristnir, vörðu tímanum til að taka þátt í lèttúðarfullum skemmtunum í leikhúsinu eða í dansbúðum, en vanræktu heimili sín. Á alla slíka ósiði rèðist Krýsostomus með óviðjafnanlegri málsnilld og sýndi, hve gagnstætt slíkt háttalag er skyldum kristins manns og hvatti áheyrendur sína til iðrunar og apturhvarfs. Einhverju sinni bar svo við, að annar klerkur en Krýsostomus ætlaði að prèdika í kirkjunni; en hann varð að hætta við það, því söfnuðurinn æpti svo á móti honum, að hann gat engu orði upp komið fyrir háreisti og óhljóðum, stè þá Krýsostomus í stólinn og tók þá undir í kirkjunni af fagnaðarópi og lófaklappi, eins og vant var þegar söfnuðinum fanst mikið um eitthvað í ræðum hans; en hann sagði, að allt þettu ytra látbragð væri fánýtt og hègómlegt þegar það leiddi ekki til lífernisbetrunar og að mönnum bæri að sitja hljóðir og með harmþrúngnum anda og hugsa til synda sinna. En hinar alvarlegu áminningar hans og þær tilraunir, sem hann gjörði til að koma af ósiðum og óreglu bökuðu honum smásaman óvináttu margra og margir klerkar bæjarins reiddust honum af því að hann vildi fá þá til iðjusemi og árvekni og til að stunda vel embætti sitt. Evtropíus ráðgjafi varð honum nú líka fráhverfur, þegar sú von brást honum að geta haft hann til hvers sem vera skyldi og Krýsostomus í þess stað skorinort fann að löstum hans og lèt ekki undan ójöfnuði hans. Evdoxíu keisaradrottníngu þótti líka hann koma of mjög við kaun sín og fyrir þá sök hataðist hún við hann.

En þó Krýsostomus þannig mætti margs konar mótspyrnum, lèt hann þó ekki hugfallast, heldur hafði stöðugt það mark og mið fyrir augum, að viðhalda Krists hreina lærdómi í kirkjunni og sýna ávexti hans í lífferni sínu. Hann beitti biskupsvaldi sínu til að setja ofan í við þá og koma þeim burt sem rángfærðu sannleikann og útlistaði guðs orð á marga vegu og frá ýmsum hliðum í ræðum sínum og reyndi til að vera öðrum til fyrirmyndar í allri breytni sinni; eins lagði hann niður mikið af því skrauti, sem erkibiskuparnir áður höfðu haft og varði því fè nauðstöddum til hjálpar, sem hann þannig sparaði, og hvatti aðra kristna efnamenn til hins sama.

Eptir svo margar aldir er ekki hægt að lýsa því til fulls, hve viturlega forsjálni Krýsostomus sýndi í framkvæmdum sínum. Mótstöðumenn hans báru honum að vísu opinberlega á brýn, að gjörðir hans sprytti af hroka og ójöfnuði; en þessi ásökun virðist vera öldungis ástæðulaus. Evtropíus ráðgjafi hafði gjörzt óvinur hans og reynt á allan hátt til að skaða hann; og þó tók Krýsostomus ástúðlega við honum, þegar hann fèkk óþokka keisarans og leitaðist við að frelsa líf hans. Í velgengni sinni hafði Evtropíus sakir ágirndar sinnar og rángsleitni fengið marga óvini og eflaust unnið til þess að falla úr tigninni; en Krýsostomus notaði sèr ekki af niðurlægíngu hans til að refsa honum, heldur til að sýna honum kristilega mannelsku. «Hví», segir hann, «ættum vèr að reiðast þeim, sem gjöra á hluta vorn? ætti það ekki heldur að koma oss til að snúa huga vorum til almáttugs Guðs? Hugsum ekki um að hefna vor, heldur um að sigrast á sjálfum oss og biðjum föður allrar miskunar að fyrirgefa hinum seku».

Þannig breytti hann eptir þessu boði Drottins: «gjörið þeim gott, sem yður hata, og biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður». Með þessu sama mannelskufulla hugarfari sættist hann við Severíanus, biskup í Gabala á Sýrlandi, sem í fjærveru hans hafði kent villulærdóma í Miklagarði. En þessa þrætu hans við Severíanus og óvild ýmsra villukennenda notuðu mótstöðumenn hans við hirð keisarans til að hrynda honum úr völdum og þeim tókst það loksins. Evdoxía keisaradrottníng hafði með ofríki svælt undir sig víngarð nokkurn og þegar Krýsostomus reit henni brèf og beiddi hana einarðlega að skila honum aptur, varð hún óð og uppvæg og lagðist á eitt með óvinum hans. Honum var nú gefið að sök, að hann hèldi með Origenes og fleiri heimskulegar sakargiftir voru á hann bornar, t. d. að málið á ræðum hans væri of skáldlegt, að hann neytti miðdagsverðar síns einn saman, að hann segði, að aldrei væri ofseint að iðrast og að hann hefði talað illa um hina andlegu stètt. Honum var stefnt til að mæta á kirkjuþinginu í Kalsedon og svara þessum ákærum, og þegar hann skoraðist undan því, var honum vikið úr embætti og hann fenginn veraldlegum dómendum í hendur til þess honum væri hegnt.

Krýsostomus var svo ástsæll í Miklagarði, að stjórnin mundi hafa átt örðugt með að hafa hendur í hári hans, hefði hann viljað veita henni mótstöðu. Í þrjá daga samfleytt flyktist lýðurinn að kirkjunni til að heyra skilnaðarræðu hans; en þá gaf hann sig upp á vald þeim, sem sendir voru til að handtaka hann, og fluttu þeir hann samstundis í báti yfir um Stólpasund (Hellespont). Hann gjörði þetta af því að hann óttaðist fyrir uppreist, eins og líka kom á daginn, því að morgun-

inn eptir var öll borgin í uppnámi. Alþýðan var sannfærð um, að jarðskjálfti, sem kom þessa sömu nótt, væri hefnd fyrir það, hvernig farið væri með kenniföður sinn, og svo mikið kvað að uppreistinni, að keisarinn bauð að kalla Krýsostomus aptur úr útlegðinni. Apturkoma hans var eins og sigurhrós, því múgurinn bar hann til kirkjunnar og vildi ekki skiljast fyrr en hann samstundis hafði haldið ræðu.

Krýsostomus gat ekki komist hjá þeim snörum, sem fyrir hann voru lagðar. Keisarinn bauð honum að gegna aptur embættisverkum sínum, en kirkjulög bönnuðu klerkum, sem hafði verið vikið úr embætti, að hlýða slíkri skipun fyrr en þeir væri dæmdir sýknir saka af biskupaþingi, er væri fjölmennara en sá kirkjufundur, sem hafði sakfellt þá, og gat Krýsostomus ekki fengið keiarann til að stefna saman kirkjufund til að dæma mál sitt. Hann var svo vinsæll og kendi guðsorð með svo mikilli djörfúng hver sem í hlut átti, að hann gat ekki komist hjá, að baka sèr óvild hirðarmanna. Honum var gefið að sök, að hann hefði einhverntíma jafnað keisaradrottníngunni saman við Jesabel og að hann nú hefði litið til hennar í ræðu, sem byrjaði með þessum orðum: »aptur dansar dóttir Heródíadis og biður um höfuð Jóhannesar«. Keisarinn gjörði hann aptur útlægan og til þess að koma í veg fyrir upphlaup, fór hann leynilega burt úr borginni 20. júní 404, en lagðist veikur á leiðinni svo hann um tíma varð að halda kyrru fyrir. Kom nú skipun frá stjórninni að flytja hann lángt inn í Asíu hina minni svo hann gæti ekki náð til vina sinna og varð hann að halda áfram þótt hann væri enn ekki ferðafær. Hann bað um, að sèr vegna vanheilsu sinnar yrði leyft að

setjast einhverstaðar að, þar sem loptslagið væri ekki mjög kalt, en í þess stað sendi stjórnin hann til bæjarins Kúkúsus, sem liggur á bersvæði ofarlega í Tárusfjöllunum og er þaðan meir en 8 vikna ferð til Miklagarðs. Þegar hann loksins kom þángað, var hann yfirkominn af þreytu og illum aðbúnaði á ferðinni, en þar var ekki læknishjálp að fá. Ofan á þetta bættist nú, að næm drepsótt kom upp í bænum og að ræníngjar gjörðu þar opt usla og óspektir.

Í þessum reynsluskóla misti Krýsostomus ekki hugrekki sitt, heldur fékk hann að reyna, að Guð er sínum trúuðu börnum ætíð nálægur með sinni náð. Hann skrifaðist á við fjölda fjarlægra vina sinna og áminti þá um að vera staðfastir í trúnni og sýndi óþreytandi áhuga á að útbreiða hvervetna guðsríki. Hann lærði nú af eigin reynslu, hve nýtsamar þjáníngarnar geta verið fyrir hinn trúaða og þessa innilegu sannfæríngu hefir hann með óvenjulegum krapti látið í ljósi í brèfum sínum; þau lýsa líka óvenjulegu sálarþreki í hinum margvíslegu þrautum hans. Hann leitaði sèr huggunar í þeirri uppsprettu, sem hann var vanur að vísa öðrum á, sem sè í Guðs orði. Einhverjum vini sínum skrifaði hann á þessa leið: «ef keisaradrottníngin vill halda mèr í útlegð, þá ræður hún því; jörðin tilheyrir Drottni með öllu því, sem á henni er; vilji hún drekkja mèr í sjónum, hugsa eg til Jónasar; vilji hún kasta mèr fyrir óarga dýr, minnist eg Daníels spámanns. Nakinn kom eg inn í heiminn og nakinn mun eg fara þaðan». Allir vinir hans dáðust að þessari stillilegu guðrækni hans og undirgefni undir Guðs vilja og það var almenn óánægja út af því, að þvílíkur maður yrði að lifa í útlegð þótt hann hefði ekkert til saka

unnið. Hann hafði vakið svo mikla undrun og lotníngu hjá öllum kristnum, að fjöldi manna tókst pílagrímsferð á hendur til Kúkúsus til að sjá hann og fá að heyra til hans; en þessi ástsæld varð til þess að æsa enn meir hatur óvina hans, svo að um vorið 407 var farið með hann enn lengra í burt til Pytíus við Svartahafið ytzt á landamærum Rómaríkis. Það var auðsèð, að hirðin í Miklagarði vildi flýta fyrir dauða hans, þótt hún ekki áræddi að láta drepa hann berolíutis. Hermönnum þeim, sem fluttu hann, var heitið verðlaunum, ef hann dæi á leiðinni. Einn af fylgdarmönnum hans, var honum þó hliðhollur í laumi, en sá sem rèði fyrir ferðinni gjörði allt til þess að hann þjakaðist sem mest. Vegurinn lá ýmist yfir jökla eða eyðisanda, þar sem ekkert afdrep var fyrir hinum brennandi sólarhita og þar að auk vantaði hann öll þau hægindi og þá aðhlynníngu, sem aldurhnígin og heilsulítill maður við þarf á ferðalagi og er mælt, að hann hafi ekki svo mikið sem fengið að lauga sig, þegar þeir komu að ám eða vötnum. Þegar þeir höfðu verið þrjá mánuði á ferðinni var hann líka orðinn örmagna og aðfram kominn; og lögðu þeir hann þá dauðvona niður hjá gröf píslarvotts nokkurs skammt frá bænum Kómana í Pontus og klæddu hann í hvítan búníng, eins og vant var að gjöra við deyandi menn. Ekki heyrðist eitt óþolinmæðisorð til hans nè umkvörtun yfir hinni illu meðferð og allri þeirri rángsleitni, sem hann hafði orðið fyrir. Hann andaðist með híru og glöðu viðmóti og það, sem seinast heyrðist til hans, var þetta venjulega orðtak hans: «lofaður og vegsamaður sè Guð fyrir alla hluti».

Í fornkirkjunni jafnaðist enginn við Krýsostomus að andríki og málsnilld og enginn gat laðað annan eins

manngrúa að sèr eins og þann, sem streymdi að kirkjunni í Antiokkíu og Miklagarði til að hlýða ræðum hans. Það er bágt að lýsa því nákvæmlega, hvernig þetta atvikaðist; en þó má ráða í það af ritum hans. Hann sótti alla vizku sína og allar samlíkíngar sínar í heilaga ritníngu, sem er uppspretta kristilegrar speki og bezt allra bóka, og hún sagði honum, hvað hann ætti að kenna og hvernig hann ætti að kenna. Í því er þessi leyndardómur að miklu leyti fólginn.

---

## Kristniboð Jóns Vilhjálms á Suðurhafseyunum.

Jón Vilhjálmur (John Williams) er borinn og barnfæddur 1796 í litlu þorpi nálægt Lundúnaborg og fékk hann gott og kristilegt uppeldi hjá foreldrum sínum, en þó einkum hjá móður sinni, sem var guðrækin kona og sem á hverju kveldi baðst fyrir með börnum sínum. Hún gróðursetti hjá honum á únga aldri þá kristilegu trú, sem seinna bar svo fagra ávexti. Þegar hann var 14 vetra kom faðir hans honum fyrir til kenslu hjá járnsmiði nokkrum, er hét Tonkin og var móður hans mikil gleði að því, að þessi hjón voru góð og guðhrædd. Vilhjálmur átti að halda reikníngana á skrifstofunni; en hann hafði mest gaman af að vera í smiðjunni og horfa á smiðarnar og að æfa sig í að smíða, þegar enginn var þar. Hann varð fljótt svo fullnuma í járnsmíði, að hann tók öllum samlærisveinum sínum fram og kom það honum seinna að góðu haldi, þegar hann var orðinn kristniboðari.

En meðan á þessu stóð, slokknaði smásaman hjá honum trúarlíf það, sem móðir hans hafði vakið, svo hann gleymdi Guði og matti lítils áminníngar húsbænda sinna og móður sinnar, sem nú daglega beiddi Guð grátandi fyrir honum. Hann lagði nú lag sitt saman við gjálífa kompána og fell allt af dýpra og dýpra, þangað til Drottinn, sem ætlaði honum að vinna stórvirki, opnaði augu hans og frelsaði hann frá glötuninni. Einhvern sunnudag 1814 hafði hann mælt sèr mót með

Þannig breytti hann eptir þessu boði Drottins: «gjörið þeim gott, sem yður hata, og biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður». Með þessu sama mannelskufulla hugarfari sættist hann við Severíanus, biskup í Gabala á Sýrlandi, sem í fjærveru hans hafði kent villulærdóma í Miklagarði. En þessa þrætu hans við Severíanus og óvild ýmsra villukennenda notuðu mótstöðumenn hans við hirð keisarans til að hrynda honum úr völdum og þeim tókst það loksins. Evdoxía keisaradrottníng hafði með ofríki svælt undir sig víngarð nokkurn og þegar Krýsostomus reit henni brèf og beiddi hana einarðlega að skila honum aptur, varð hún óð og uppvæg og lagðist á eitt með óvinum hans. Honum var nú gefið að sök, að hann hèldi með Origenes og fleiri heimskulegar sakargiftir voru á hann bornar, t. d. að málið á ræðum hans væri of skáldlegt, að hann neytti miðdagsverðar síns einn saman, að hann segði, að aldrei væri ofseint að iðrast og að hann hefði talað illa um hina andlegu stètt. Honum var stefnt til að mæta á kirkjuþinginu í Kalsedon og svara þessum ákærum, og þegar hann skoraðist undan því, var honum vikið úr embætti og hann fenginn veraldlegum dómendum í hendur til þess honum væri hegnt.

Krýsostomus var svo ástsæll í Miklagarði, að stjórnin mundi hafa átt örðugt með að hafa hendur í hári hans, hefði hann viljað veita henni mótstöðu. Í þrjá daga samfleytt flyktist lýðurinn að kirkjunni til að heyra skilnaðarræðu hans; en þá gaf hann sig upp á vald þeim, sem sendir voru til að handtaka hann, og fluttu þeir hann samstundis í báti yfir um Stólpasund (Hellespont). Hann gjörði þetta af því að hann óttaðist fyrir uppreist, eins og líka kom á daginn, því að morgun-

inn eptir, var öll borgin í uppnámi. Alþýðan var sannfærð um, að jarðskjálfti, sem kom þessa sömu nótt, væri hefnd fyrir það, hvernig farið væri með kenniföður sinn, og svo mikið kvað að uppreistinni, að keisarinn bauð að kalla Krýsostomus aptur úr útlegðinni. Apturkoma hans var eins og sigurhrós, því múgurinn bar hann til kirkjunnar og vildi ekki skiljast fyrr en hann samstundis hafði haldið ræðu.

Krýsostomus gat ekki komist hjá þeim snörum, sem fyrir hann voru lagðar. Keisarinn bauð hónum að gegna aptur embættisverkum sínum, en kirkjulög bönnuðu klerkum, sem hafði verið vikið úr embætti, að hlýða slíkri skipun fyrr en þeir væri dæmdir sýknir saka af biskupaþingi, er væri fjölmennara en sá kirkjufundur, sem hafði sakfellt þá, og gat Krýsostomus ekki fengið keisarann til að stefna saman kirkjufund til að dæma mál sitt. Hann var svo vinsæll og kendi guðsorð með svo mikilli djörfúng hver sem í hlut átti, að hann gat ekki komist hjá, að baka sèr óvild hirðarmanna. Honum var gefið að sök, að hann hefði einhverntíma jafnað keisaradrottníngunni saman við Jesabel og að hann nú hefði litið til hennar í ræðu, sem byrjaði með þessum orðum: »aptur dansar dóttir Heródíadis og biður um höfuð Jóhannesar». Keisarinn gjörði hann aptur útlægan og til þess að koma í veg fyrir upphlaup, fór hann leynilega burt úr borginni 20. júní 404, en lagðist veikur á leiðinni svo hann um tíma varð að halda kyrru fyrir. Kom nú skipun frá stjórninni að flytja hann lángt inn í Asíu hina minni svo hann gæti ekki náð til vina sinna og varð hann að halda áfram þótt hann væri enn ekki ferðafær. Hann bað um, að sèr vegna vanheilsu sinnar yrði leyft að

setjast einhverstaðar að, þar sem loptslagið væri ekki mjög kalt, en í þess stað sendi stjórnin hann til bæjarins Kúkúsus, sem liggur á bersvæði ofarlega í Tárusfjöllunum og er þaðan meir en 8 vikna ferð til Miklagarðs. Þegar hann loksins kom þángað, var hann yfirkominn af þreytu og illum aðbúnaði á ferðinni, en þar var ekki læknishjálp að fá. Ofan á þetta bættist nú, að næm drepsótt kom upp í bænum og að ræníngjar gjörðu þar opt usla og óspektir.

Í þessum reynsluskóla misti Krýsostomus ekki hugrekki sitt, heldur fèkk hann að reyna, að Guð er sínum trúuðu börnum ætíð nálægur með sinni náð. Hann skrifaðist á við fjölda fjarlægra vina sinna og áminti þá um að vera staðfastir í trúnni og sýndi óþreytandi áhuga á að útbreiða hvervetna guðsríki. Hann lærði nú af eigin reynslu, hve nýtsamar þjáníngarnar geta verið fyrir hinn trúaða og þessa innilegu sannfæríngu hefir hann með óvenjulegum krapti látið í ljósi í brèfum sínum; þau lýsa líka óvenjulegu sálarþreki í hinum margvíslegu þrautum hans. Hann leitaði sèr huggunar í þeirri uppsprettu, sem hann var vanur að vísa öðrum á, sem sè í Guðs orði. Einhverjum vini sínum skrifaði hann á þessa leið: «ef keisaradrottníngin vill halda mèr í útlegð, þá ræður hún því; jörðin tilheyrir Drottni með öllu því, sem á henni er; vilji hún drekkja mèr í sjónum, hugsa eg til Jónasar; vilji hún kasta mèr fyrir óarga dýr, minnist eg Daníels spámanns. Nakinn kom eg inn í heiminn og nakinn mun eg fara þaðan». Allir vinir hans dáðust að þessari stillilegu guðrækni hans og undirgefni undir Guðs vilja og það var almenn óánægja út af því, að þvílíkur maður yrði að lifa í útlegð þótt hann hefði ekkert til saka

unnið. Hann hafði vakið svo mikla undrun og lotníngu hjá öllum kristnum, að fjöldi manna tókst pílagrímsferð á hendur til Kúkúsus til að sjá hann og fá að heyra til hans; en þessi ástsæld varð til þess að æsa enn meir hatur óvina hans, svo að um vorið 407 var farið með hann enn lengra í burt til Pytíus við Svartahafið ytzt á landamærum Rómaríkis. Það var auðsèð, að hirðin í Miklagarði vildi flýta fyrir dauða hans, þótt hún ekki áræddi að láta drepa hann beinlínis. Hermönnum þeim, sem fluttu hann, var heitið verðlaunum, ef hann dæi á leiðinni. Einn af fylgdarmönnum hans, var honum þó hliðhollur í laumi, en sá sem rèði fyrir ferðinni gjörði allt til þess að hann þjakaðist sem mest. Vegurinn lá ýmist yfir jökla eða eyðisanda, þar sem ekkert afdrep var fyrir hinum brennandi sólarhita og þar að auk vantaði hann öll þau hægindi og þá aðhlynníngu, sem aldurhnígin og heilsulítill maður við þarf á ferðalagi og er mælt, að hann hafi ekki svo mikið sem fengið að lauga sig, þegar þeir komu að ám eða vötnum. Þegar þeir höfðu verið þrjá mánuði á ferðinni var hann líka orðinn örmagna og aðfram kominn; og lögðu þeir hann þá dauðvona niður hjá gröf píslarvotts nokkurs skammt frá bænum Kómana í Pontus og klæddu hann í hvítan búníng, eins og vant var að gjöra við deyandi menn. Ekki heyrðist eitt óþolinmæðisorð til hans nè umkvörtun yfir hinni illu meðferð og allri þeirri rángsleitni, sem hann hafði orðið fyrir. Hann andaðist með híru og glöðu viðmóti og það, sem seinast heyrðist til hans, var þetta venjulega orðtak hans: »lofaður og vegsamaður sè Guð fyrir alla hluti«.

Í fornkirkjunni jafnaðist enginn við Krýsostomus að andríki og málsnilld og enginn gat laðað annan eins

manngrúa að sèr eins og þann, sem streymdi að kirkjunni í Antiokkíu og Miklagarði til að hlýða ræðum hans. Það er bágt að lýsa því nákvæmlega, hvernig þetta atvikaðist; en þó má ráða í það af ritum hans. Hann sótti alla vizku sína og allar samlíkíngar sínar í heilaga ritníngu, sem er uppspretta kristilegrar speki og bezt allra bóka, og hún sagði honum, hvað hann ætti að kenna og hvernig hann ætti að kenna. Í því er þessi leyndardómur að miklu leyti fólginn.

---

## Kristniboð Jóns Vilhjálms á Suðurhafseyunum.

Jón Vilhjálmur (John Williams) er borinn og barnfæddur 1796 í litlu þorpi nálægt Lundúnaborg og fékk hann gott og kristilegt uppeldi hjá foreldrum sínum, en þó einkum hjá móður sinni, sem var guðrækin kona og sem á hverju kveldi baðst fyrir með börnum sínum. Hún gróðursetti hjá honum á únga aldri þá kristilegu trú, sem seinna bar svo fagra ávexti. Þegar hann var 14 vetra kom faðir hans honum fyrir til kenslu hjá járnsmiði nokkrum, er hèt Tonkin og var móður hans mikil gleði að því, að þessi hjón voru góð og guðhrædd. Vilhjálmur átti að halda reikníngana á skrifstofunni; en hann hafði mest gaman af að vera í smiðjunni og horfa á smíðarnar og að æfa sig í að smíða, þegar enginn var þar. Hann varð fljótt svo fullnuma í járnsmíði, að hann tók öllum samlærisveinum sínum fram og kom það honum seinna að góðu haldi, þegar hann var orðinn kristniboðari.

En meðan á þessu stóð, slokknaði smásaman hjá honum trúarlíf það, sem móðir hans hafði vakið, svo hann gleymdi Guði og matti lítils áminníngar húsbænda sinna og móður sinnar, sem nú daglega beiddi Guð grátandi fyrir honum. Hann lagði nú lag sitt saman við gjálífa kompána og fèll allt af dýpra og dýpra, þangað til Drottinn, sem ætlaði honum að vinna stórvirki, opnaði augu hans og frelsaði hann frá glötuninni. Einhvern sunnudag 1814 hafði hann mælt sèr mót með

fèlagsbræðrum sínum í veitíngahúsi nokkru; en af því að þeir komu ekki á tilteknum tíma, gekk hann aptur á bak og áfram fyrir utan húsið í illu skapi; vildi þá svo til, að húsmóðir hans gekk af hendíngu þar fram hjá til kirkjunnar og þegar hún spurði hann, eptir hverjum hann biði, sagði hann henni það frómt og einlægt; hún bað hann þá í þess stað að koma með sèr í kirkju og þótti honum skömm að neita því, en lángaði til að komast sem fyrst aptur úr kirkjunni til að spila og drekka. En þá stè presturinn upp í stólinn og las upp þessa grein hjá Matth. 16, 26: «að hverju gagni kæmi það manninum, þó hann eignaðist allan heiminn, ef hann liði tjón á sálu sinni? Eða hvað getur maðurinn gefið til lausnar sálu sinni»? Út af þessum texta lagði presturinn með fjöri og andríki og fèkk ræðan svo mikið á Vilhjálm, að hann upp frá því varð annar og nýr maður.

Eptir að Vilhjálmur tók sinnaskipti og bætti ráð sitt hafði hann mikið gott af samtali við móður sína og sóknarprestinn Matthæus Wilks. Í söfnuði hans höfðu 30 úngir menn tekið sig saman um, að halda fundi á hverju mánudagskvöldi til að tala um guðlega hluti, er snertu bæði trú og líferni, kirkjusögu og biflíuþýðíngu og stundum komu þeir saman til bænagjörðar. Hið ástúðlegasta samkomulag var milli þeirra og þeir fengu ráð og leiðsögn hjá Wilks presti. Vilhjálmur var tekinn inn í þetta fèlag og sagði hann seinna, að það væri sá háskóli, sem hann hefði gengið á. Með miklum áhuga tók hann nú líka þátt í mannelskuverkum safnaðarins og fèlögum þeim, sem stofnuð voru til að þjóna og hjúkra sjúklíngum; en ekki hafði honum enn komið til hugar að verða kristniboði. Þá stofnaði Wilks

kristniboðsfèlag, er átti að halda fundi tvisvar á hverju missiri og efldist fèlag þetta mikið við þær góðu frèttir, sem komu 1815 frá Suðurafríku og Suðurhafseyunum; vaknaði þá líka sterk löngun hjá Vilhjálmi til að boða kristna trú, en hann beiddi Guð innilega að fræða sig um sinn vilja, svo hann rèðist ekki of brátt í þetta og þegar hann í júlímánuði 1816 snèri sèr í þessu efni til kristniboðsráðsins í Lundúnum, bað hann það að íhuga málið vandlega og gjöra sig apturreka, ef því þætti það áhorfsmál. Wilks prestur mælti kröptuglega fram með honum og með því þetta ár aptur og aptur komu áskoranir frá Suðurhafinu að senda þángað verkamenn, var það afráðið, að Vilhjálmur skyldi ásamt 3 öðrum fara þángað seint um haustið, þótt hann væri ekki nema tvítugur að aldri. Wilks veitti honum tilsögn og leiðbeindi honum með óþreytandi kærleika, en tómstundum sínum varði hann til að kynna sèr ýms iðnaðarhús og verksmiðjur, því hann var sannfærður um, að kristniboðendurnir ættu ekki einúngis að veita heiðíngjunum tilsögn í guðsorði, heldur og í iðnaði og hagleiksíþróttum. Hann hafði lengi haldið kvöldskóla og því hèlt hann áfram ásamt umhyggju sinni fyrir fátæklíngum, þángað til hann fór burt. Í þessum skóla lærði hann að þekkja tvær systur, sem unnu með honum í kristilegum kærleika. Aðra þeirra, er hèt María Chauner, átti hann og varð hún sakir sinnar innilegu guðrækni og kristilegu þolinmæði öflug stoð og stytta manns síns og reyndist eyarbúum eins og bezta móðir. Vilhjálmur tók nú prestvígslu með öruggu trúartrausti, þótt hann með sárum söknuði yrði að kveðja hina mörgu vini sína og sèr í lagi móður sína, sem bar

skilnaðinn með þeirri kristilegu stillíngu og hugarrósemi, er heit og hjartanleg bæn veitir guðsbörnum.

---

Áður en lengra er farið, skulum vèr nú renna augunum yfir Suðurhafseyarnar til þess bæði að sjá hið upphaflega ástand þeirra og hvern framgáng kristniboðið hafði haft, þegar Vilhjálmur kom til Tahiti.

Hinar mörgu eyar í Suðurhafinu skiptast eptir afstöðu sinni í hinar eystri og vestari eyar; til hinna eystri heyra Sandvíkur- Markesas- Fèlags- Vináttu- og Skipherraeyarnar; en með vestareyum teljast allar eyar fyrir austan Nýaholland og eru Nýaseland og Fidsjieyarnar ytztar þeirra. Á eyum þessum eru tveir ólíkir þjóðbálkar. Á vestureyunum eru menn svartir á hörundslit og ættaðir frá Afríku, eptir því sem Vilhjálmur heldur; þángað kom hann ekki fyrr en seinustu árin sem hann lifði; þar á mót fèkk hann kristnað nálega allar austureyarnar; þar eru menn móraudir á brún og brá og eins á Nýaselandi, en þó fríðir sýnum og stórvaxnir og sumir karlmenn einkum höfðíngjarnir meir en 3 álnir á hæð. Þeir höfðu ágætar sálargáfur, mikla greind og bezta skilníng. Veðráttufarið á eyum þessum er hlýtt og heilnæmt og frjófsemi frábær. En þessir eyarbúar, sem Guð hafði gætt svo ágætum eiginlegleikum, voru sokknir niður í myrkur heiðninnar og hina örgustu skurðgoðadýrkun, sem aptur leiddi af sèr megna siðaspillíngu, sífeldan ófrið og styrjöld. Af eyum þessum var Tahiti fyrst fundin 1767 af skipstjóra Wallis og nokkrum árum síðar fann Kook Nýaholland og Nýugvineu og ótal margar aðrar eyar í Kyrrahafinu. Þegar fregnin um þessa nýu heimsálfu barst til Englands, vaknaði þar áhugi á að flytja þessum þjóðum

ljós kristinnar trúar og þó þetta í fyrstunni mætti mótspyrnu, fór það þó svo, að 1796, sama árið og Vilhjálmur fæddist, voru 25 kristniboðarar sendir til Markesas- Fèlags- og Vináttueyanna. Af þeim fóru 18 til eyarinnar Tahiti og varð þeim í fyrstunni nokkuð ágengt, en bráðum tók fyrir það aptur, svo eptir 16 ár höfðu þeir litlu til leiðar komið, enda höfðu þá flestir kristniboðararnir orðið að yfirgefa stöðvar sínar, og virtist þá útgjört um kristniboðið; en Drottinn tók þá í taumana og það varð bert, að honum einum ber dýrðin og að hann einn getur lífgað hið dauða. Árið 1809 var Pomare konúngur rekinn burt af þegnum sínum og settist hann að á lítilli eyu, er heitir Eimeo og voru kristniboðararnir í för með honum. Þar fèkk konúngur mætur á Krists náðarlærdómi og ásetti sèr að lögtaka hann í ríki sínu, ef hann næði því aptur. Þetta heppnaðist honum líka 1815 og útbreiddist kristni þar nú óðum; en kristniboðarnir voru of fáir til að geta fullnægt andlegum þörfum eyarmanna og því skrifuðu þeir til Englands og beiddu um að fá fleiri verkamenn senda þángað. Þá var það, að Vilhjálmur og fèlagar hans komu (1817) til Nýahollands; á leiðinni þaðan til Tahiti hröktust þeir til Nýaselands og fengu þar vinsamlegar viðtökur hjá villimönnum. 1817 17. dag nóv. mán. lentu þeir á Tahiti. Þar var þá svo mikið húngur og þorsti eptir guðsorði, að fám dögum eptir að þeir Vilhjálmur komu þángað, sóttu 700—800 eyarbúar guðsþjónustugjörð í kapellu þeirri, sem þeir höfðu sjálfir byggt. Þegar kristniboðarnir nálguðust kirkjuna, heyrðu þeir, að hinir innbornu menn þökkuðu Guði fyrir, að hann hefði sent þángað fleiri verkamenn og óskuðu, að þeir bráðum gætu lært móðurmál sitt og prèdikað

guðsorð á því. Þó megum vèr ekki ætla, að þessir menn hafi þá verið kristnaðir; heldur hafði Guðs andi vakið hjá þeim trúarlöngun og sýnt þeim viðurstyggð skurðgoðadýrkunarinnar. Pomare konúngur var sá fyrsti, sem var skírður; en það var ekki fyrr en 1819. Það sem Vilhjálmur fyrst tók fyrir sig, var að læra málið og hann gjörði það með þvílíku kappi og áhuga, að hann eptir 8 mánuði gat prèdikað á því, og er það þó svo þúngt vegna hinna mörgu merkínga orðanna, að hinn ötuli kristniboðari Ellis varð ekki fullnuma í því fyrr en eptir mörg ár. Jafnframt smíðaði Vilhjálmur lítið skip eða bát, sem hann gæti siglt á milli næstu eya og í september 1818 lenti hann á eyunni Najatea og hóf þar kristniboðið á Suðurhafseyum. Eyarbúar veittu honum góðar viðtökur; allir voru þeir þá að nafninu til kristnaðir, en trú þeirra var dauð og dáðlaus, svo þeir lifðu enn í heiðínglegum löstum, iðjuleysi og saurlifnaði; en á 2 eða 3 árum tóku þeir svo miklum stakkaskiptum, að þeir urðu öðrum til fyrirmyndar í guðrækni og kristilegum dyggðum. Vilhjálmur reyndi fyrst til að fá eyarbúa til að flytja saman á einn stað og hjálpaði hann þeim til að byggja sèr snotur og rúmgóð hús í stað auðvirðilegra hreisa og moldarkofa, sem þeir höfðu búið í og þannig myndaðist þar allmikill og skipulegur bær. Taumatóa konúngur, sem var skynsamur og hygginn og ágætur maður, styrkti hann í þessu og öðru. Vilhjálmur talaði opt við hann um hið reglubundna fèlagslíf á Englandi og hafði það þann árángur, að Taumatóa gaf upp harðstjórn sína og stakk sjálfur upp á frjálsari stjórnarskipun, sem og komst á árið 1820. Skólar voru nú stofnaðir og í þá gengu allir; konúngur og drottníng, prestar, karlar og

konur, ríkir og fátækir sátu hverjir hjá öðrum og lærðu að lesa, skrifa og reikna og á stuttum tíma urðu þeir vel læsir. Til þessa hjálpaði það mikið, að Ellis kristniboðari hafði stofnað þar prentsmiðju og var í henni prentað stáfrofskver og Lúkasar guðspjall, sem Nott hafði snúið á Tahitiska túngu. Fjöldi presta kom til Najatea frá nálægum eyum og beiddi um aðstoðarmenn í kristniboðinu; stakk þá Taumatóa upp á því, að þeir skyldu stofna kristniboðarafèlag og þótti Vilhjálmi mjög vænt um þetta; en hafði ekki sjálfur viljað fara því fyrst á flot. Til að ræða þessa uppástúngu var haldin fjölmenn samkoma og fór þar allt mjög skipulega fram. Taumatóa var forseti og hóf fundinn með svofeldum orðum: «hugsið til þess, hvernig þèr hafið þjónað falsguðum og selt þeim í hendur allar eigur yðar. Áður voruð þjer þrælar; en náðarboðskapur Krists hefir gjört yður frjálsa. Hjá oss eru kennendur, sem af meðaumkun við oss hafa yfirgefið átthaga sína; látum oss þá einnig kenna í brjósti um önnur lönd og styðja að frelsi þeirra það sem í voru valdi stendur. Gefið það sem þèr megið án vera; en þótt þèr ekkert viljið gefa, þá óttist ekki fyrir því, að yður verði hegnt, eða að þèr verðið drepnir eins og áður. Sèrhver gjöri það sem honum þykir rètt vera». Þá stóð annar upp og mælti: «vèr vitum allir, að ekkert skip getur hreift sig í logni; en nú eru peníngar eins ómissandi fyrir kristniboðsfèlagið eins og vindurinn er fyrir skipið; látum oss því gefa það sem vèr getum». Kristniboðsfèlag var nú stofnað og árið 1820 var heill skipsfarmur af *kókusolíu* sendur til kristniboðsfèlagsins í Lundúnum, sem seldi hann fyrir 20000 rd.

Sama ár voru hinir fyrstu menn þar, 70 að tölu

skírðir, og hafði eyan þá tekið miklum stakkaskiptum. Eyarmenn, sem áður höfðu verið latir, voru nú orðnir iðjusamir og kunnu vel til allra verka; karlmennirnir bygðu og unnu að trè og járnsmíði; en kona Vilhjálms kendi kvennfólki að sauma og ýmsar handiðnir. Opt var farið til nálægra eya og þar boðuð kristni; þángað var og flutt þýðíng Mattheusar guðspjalls, sem nú var búið að prenta og tóku margir við henni fegins hendi. Um þessar mundir hröktust nokkrir menn til Najatea frá fjarlægri eyu, er Nurutu heitir. Þeir urðu hissa á að sjá þar svo marga nýstárlega hluti og lètu brátt skírast og er þeir snèru heim aptur, fengu þeir nokkra presta með sèr. Að mánuði liðnum kom bátur frá þeim og með honum barst sú gleðifregn, að kristni útbreiddist óðum á eyunni. Vilhjálmur tók nú það ráð, að gjöra innlenda menn að kristniboðurum og láta þá prèdika guðsorð á nálægum eyum; en til þessa þurfti hæfilegt skip og bakaði það honum mikla áhyggju, hvernig hann gæti aflað sèr þess. En þá lagðist hann fárveikur, svo fæstir hugðu honum líf. Vinir hans rèðu honum þá til, að ferðast til Englands, því að það mundi vera sá eini vegur til þess, að honum gæti batnað og fèllst hann loks á það; og er söfnuðurinn heyrði þetta áform hans, grèt hann hástöfum; en Vilhjálmur áminti hann um að vera stöðugur í bæninni, því að Guði væri ekkert ómögulegt, Þeir komu nú daglega saman til bænahalds og Vilhjálmur baðst fyrir með þeim; batnaði honum þá aptur svo hann snèri af ferðinni, en litlu síðar fèkk hann þá sorgarfregn, að móðir hans væri látin.

Skömmu seinna tókst hann ferð á hendur til Nýsuðurvales, meðfram vegna heilsu sinnar, en að nokkru

leyti til að kaupa kristniboðsskip það, er hann lengi hafði haft í huga og er hann fèkk það, fór hann með það til Najatea og þótti mönnum þar svo vænt um þetta, að Taumatóa konúngur reit aðalfèlaginu í Lundúnum innilegt þakkarávarp fyrir það. Á heimleiðinni hafði Vilhjálmur víða komið við á Herveyeyunum og á einni þeirra, er heitir Aitútaki, skilið eptir tvo innlenda kennimenn, af hverjum einkum annar, að nafni Papejha, varð ötull og árvakur verkamaður í Drottins þjónustu. Konúngurinn þar á eyunni hafði komið út á skip til hans, og þegar Vilhjálmur sagði honum, hvernig farið hefði á hinum eyunum, spurði hann, hvernig goðunum liði á Najatea og varð hissa þegar hann heyrði, að þau hefðu verið brend, en að einn sannur Guð væri dýrkaður í þeirra stað. Konúngur tók kennimönnum vel og lèt gleði sína í ljósi með því að núa nefinu fast saman við nefin á þeim; en mesta gleði höfðu eyarskeggjar af Jóni syni Vilhjálms, er var 4 vetra og vildu endilega núa nefjum saman við hann. Konúngur beiddi Vilhjálm um að lofa sèr að halda þessu fagra hvita barni og lofaði að fara vel með það og gjöra það að konúngi eptir sig. En þegar þeir urðu heldur nærgöngulir, varð móðir sveinsins hrædd, svo hún þreif hann og bar hann aptur í lyptíngu.

Litlu síðar komu þau boð til Vilhjálms frá Papejha, að ef hann vildi koma þángað, ætlaði lýðurinn að brenna skurðgoð sín og trúa á hinn einasta sanna Guð. Vilhjálmur ásetti sèr því að takast kristniboðsferð á hendur til allra Herveyeyanna; fór hann að heiman um miðsumar 1823 og tók með sèr sex innlenda vígða kennimenn og skildi þá hèr og þar eptir á eyunum. Fyrst kom hann við á eyunni Aitutaki og hafði Papejha orðið mjög mik-

ið ágengt þar í kristniboðinu, því bæði voru allar goða líkneskjur brendar og daginn eptir að Vilhjálmur kom þángað, komu hèr um bil tvær þúsundir hvítklæddra manna saman í kirkjunni og vakti það hjá honum undrun og gleði. Hann prèdikaði þá út af Jóh. 3, 16: «svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn Son til þess að hver, sem á hann trúir, ekki glatist, heldur hafi eilíft líf», og hvar sem hann kom, lagði hann fyrst ýmist út af þessum orðum og ýmist út af 1. Tím. 1, 15: «það er sannur lærdómur og í alla staði viðtöku maklegur, að Jesús Kristur er kominn í heiminn til að frelsa synduga menn og er eg hinn helzti þeirra»; því að það fèkk ætíð mikið á þá, að Guð af elsku sinni hefði fórnfært Syni sínum á krossinum og að þessi fórn hefði gjört allar fórnir þeirra óþarfar. Nú ásetti Vilhjálmur sèr að fara til Naratongaeyjar, sem er stærri en allar hinar; en allir löttu hann mjög þeirrar ferðar og sögðu, að eyarskeggjar væri mjög grimmir og illir viðureignar. Þá spurðu nokkrir, er þaðan voru og höfðu tekið kristna trú; hvort Jesús hefði ekki líka dáið fyrir þá? og buðust til að fylgja Vilhjálmi og líka bauðst Papejha til þess. Fyrst komu þeir við á eyum þar í grennd og gjörðu margir góðan róm að máli þeirra, þótt þeir líka mættu mótstöðu. Á einni eyunni lofuðu menn að taka við kennendum; en jafnskjótt og Papejha og fleiri voru lentir, rèðust þeir á þá og voru nærri búnir að kyrkja Papejha, þegar hleypt var úr fallbissu á skipinu; flúðu þá eyarmenn og kennendurnir komust undan; en er þeir á heimleiðinni komu aptur til eyar þessarar, fengu þeir góðar viðtökur, því meðan þeir voru burtu hafði skæð drepsótt komið þar upp, sem eyarmenn hèldu, að væri refsing frá «Guði hinna

útlenda manna» og höfðu þeir þá heitið því að láta skírast.

Loksins komust þeir til Naratonga. Konungurinn á eynni, er Makea hèt, kom út á skip til þeirra og var mjög vingjarnlegur; hann lofaði að vernda kennendurna og tók þá með sèr í land; en deginum eptir flúðu þeir aptur út á skip, því nokkrir höfðíngjar höfðu ráðist á þá og það var snarræði eins þeirra að þakka, að þeir komust undan. Þegar þeir ætluðu að fara burt, bauðst Papejha til að verða einn eptir og fór í land; hafði hann ekki annað vopn en Nýa Testamentið og bagga af stafrofskverum; og varð sú raun á, að hann þurfti ekki annara vopna við, því að eptir rúmt missiri hafði allur landslýðurinn snúið sèr frá skurðgoðum til Drottins og byggt honum musteri. Að þessu studdi það mikið, að heiðin kona var komin þángað frá Tahiti, sem sagði frá því, að nokkrir hvítir menn hefðu komið þar til eyarinnar og breytt henni gjörsamlega og að eyarbúar dýrkuðu nú guði þeirra, sem hèta: Jehóva og Jesús Kristur. Hún sagði þeim mikið af hinum hvítu mönnum og þeim hlutum, sem þeir hefðu komið með úr átthögum sínum, og fanst þeim svo mikið um þetta, að Makea lèt tvo af sonum sínum heita eptir Jehóva og Jesú Kristi og föðurbróðir hans hafði látið reisa þeim hof og flyktust sjúklíngar þángað til að leita sèr lækníngar. Af þessu gat nú Papejha tekið sèr tilefni til að boða þeim «hinn ókunna Guð, sem þeir óvitandi dýrkuðu». (Post.g.b. 17, 23).

Vilhjálmur snèri nú aptur til Najatea, ritaði brèf til Englands, og beiddi um styrk til að stofna kristniboðsstöðvar á öllum eyunum og bætti þessu við: «því að minsta kosti get eg ekki unað því að láta fyrirber-

ast innan hinna þraungu takmarka nokkurrar einstakrar eyar». Þessi orð hafa verið sett undir mynd hans.

Þó var það vilji drottins, að hann fyrst um sinn skyldi staðnæmast á Najatea, því óheppilegar kringumstæður neyddu hann til að selja skip sitt og kristniboðsfèlagið í Lundúnum gat ekki orðið við þeirri bón hans að senda honum nýtt skip. Hann hèlt því kyrru fyrir á Najatea þángað til í byrjun ársins 1827 og gaf sig við að snúa ritningunni (og leiða söfnuðinn áfram »til fullorðins ára og aldurshæðar Krists fyllingar« og) honum veittist sú gleði, þegar mannskæð sótt gekk þar 1827, að sjá marga taka dauða sínum »sigri hrósandi í Kristi« eins og hann komst að orði og dauða þeirra verða til að vekja marga. Þessi árin naut hann líka þeirrar gleði, að fá allt af beztu fregnir frá eyunum þar í grend, og að guðsorð rótfestist æ betur og betur í hjörtum manna og gjörði þá siðprúða og iðjusama. En öll þessi ár olli það honum áhyggju, hvernig hann gæti útvegað kristniboðsskip, og við kennara nokkurn, sem var sendur frá Englandi Papejha til aðstoðar á Naratonga, sagði hann: »eg álít æfi minni hálfvegís eytt til ónýtis meðan eg á að lifa hjá þessum fáu hræðum en tíu þúsund aumíngjar lifa í eymd og volæði á eyum, sem ekki eru mjög lángt burtu. Eitthvað verður að gjöra; geti fèlagið i Lundúnum ekki hjálpað oss um skip, þá verðum við að leita hjálpar annarstaðar«. Árin 1827-1830 sókti hann aptur heim söfnuðina á öllum eyunum og styrkti þá í trúnni, en lengst dvaldi hann á Naratonga og hèr varð honum loks að ósk sinni að geta útvegað sèr skip, þó ekki hjá kristniboðsfèlaginu í Lundúnum, heldur smíðaði hann það sjálfur á 3 mánuðum, þótt hann hefði ekki lagt fyrir sig skipasmíði og

vantaði góð smíðatól. Skip þetta, sem var 60 fet á lengd og 10 fóta breitt, var kallað «friðarboði» þegar það hljóp af bakkastokkunum, og var mikill fögnuður út af því á eyunum. Hvergi hafði kristniboðið eins veglegan framgang eins og á Naratongá, og þar sóttu menn jafnan mjög rækilega helgar tíðir. Árið 1830 hóf Vilhjálmur hina fyrstu kristniboðsferð sína til Vináttu- og Skipherra-eyanna. Fyrst kom hann til eyar nokkurrar, sem Kók hafði kallað «Villimannaey». Þar gekk hann á land; en eyarmenn voru svo viltir og grimmir, að hann varð að fara þaðan deginum eptir. Skömmu seinna lenti hann á einni af Fèlagseyunum, og höfðu tveir methodiskir kristniboðarar lengi prèdikað þar og komið óvenjulegu miklu til leiðar. Fyrir hinum nornlægu Vináttueyum rèði konungur nokkur, sem frá blautu barnsbeini hafði fyrirlitið skurðgoðadýrkunina og verið fastur á því, að það hlyti að vera annar Guð til en þessir guðir úr trè og steini. Þegar hann nú heyrði, að á öðrum eyum væri hinn sanni Guð boðaður, flýtti hann sèr þangað og fèkk þar innlendan prest heim með sèr; lèt síðan brynda öllum skurðgoðum niður af stöllunum og byggja Drottni musteri. Daginn sem hann var skírður, skildi hann við allar konur sínar, en gekk laungu seinna að eiga eina þeirra, og lifði með henni í kristilegu hjónabandi. Loksins gaf hann öllum þrælum sínum frelsi, því hann sagði, að þrældómur og kristindómur gæti ekki samlagast. Hinir methodisku kristniboðarar tóku mjög vinsamlega við Vilhjálmi, og beiddu hann innilega að fara ekki til Fidsíeyanna, því að eyarbúar hefðu ásett sèr að drepa alla hvíta menn. Hann fór að þeirra ráðum, og sigldi því til Skipherra- eða Samóaeyanna, sem voru einhverjar

hinar fjölbygðustu eyar í Suðurhöfunum, en mundu hafa gjöreyðst af styrjöld og ófriði hefði kristindómurinn ekki komið þangað. Þessar eyar höfðu hvorki skurðgoð, presta nè blót, heldur dýrkuðu þeir nálega sèrhvert skriðkvikindi. Þótt þær væru því illa ræmdar á hinum eyunum fyrir guðleysi, eða rèttara sagt fyrir skort á skurðgoðum, fèkk þó kristin trú hvergi betri viðtökur en þar. Það fór þar eins og annarstaðar, að það sem fyrst greiddi götu fyrir kristniboðinu, var fregnin um þá stórkostlegu breytingu, sem komin var á hinar eyarnar. Vilhjálmur kom fyrst til eyarinnar Savaji, sem er stærsta eyan, og fèkk beztu viðtektir hjá fyrirmönnunum, einkum Malietóa, og tóku þeir fúslega við kennimönnum hans. Aðrar eyar óskuðu líka að fá kennendur, en Vilhjálmur hafði þá ekki til og lofaði því að koma aptur næsta ár. Þar eptir sigldi hann heimleiðis glaður af þeirri blessun, sem hafði fylgt ferð hans, og alstaðar var honum tekið fegins hendi, og þegar hann sagði frá, hve vel sèr hefði gengið, lofuðu menn Drottin. Þegar hann embættaði í fyrsta sinn eptir heimkomu sína, saknaði hann eins af sínum kærustu áheyrendum; en það var gamall og blindur maður, að nafni Me, og þá er hann heyrði, að hann væri veikur, flýtti hann sèr heim til hans. Meðan Me var heiðinn, voru allir á Najatea hræddir við hann; en þegar hann misti bæði augun í seinustu orustunni, áður eyan kristnaðist, tók hann kristni, og þótt hann væri blindur, var hann þó betur að sèr í heilagri ritningu en flestir aðrir, og hafði sótt skólann á hverjum degi kl. 6 optast nær leiddur þangað af konungi sjálfum. Þegar nú Vilhjálmur kom inn til hans og spurði, hvernig honum liði? mælti hann: «Ert þú þarna? á eg þá enn einu sinni að fá að heyra

til þín áður en eg dey? Nú vil eg gjarnan deyja; eg var svo hræddur um, að það yrði áður en þú kæmir aptur». Þegar honum voru gefin lækníngarlyf, tók hann þau en sagði brosandi: «hugsið ekki, að eg gefi um að komast aptur til heilsu; nei! mig lángar til að leysast hèðan og vera með Kristi; því að það er lángtum betra að vera hjá honum en í þessari syndugu veröld». Fám dögum síðar stóð Vilhjálmur hjá banasæng hans, og bað Guð að gefa sèr náð til að geta dáið eins kristilega eins og þessi blindi maður.

En þótt guðsorð ryddi sèr furðanlega til rúms á þessum eyum, vantaði þar þó ekki illgresi, sem vildi kæfa hið góða sæðið, og skal þess hèr að eins getið, sem bar til á Najatea og Naratonga árið 1831. Á smáeyu nokkurri var kominn ungur og heiðinn höfðingi til ríkis, sem safnaði liði og ætlaði að leggja undir sig Najatea og aðrar eyar; urðu þá Najateumenn að grípa til vopna, og unnu þeir sigur. En brátt fengu þeir annan skæðari óvin heima hjá sèr. Þegar hinn gamli Taumatóa andaðist, kom sonur hans, sem var mjög hneigður fyrir áfenga drykki, því til leiðar í fjærveru Vilhjálms, að víða var stofnuð brennivínsgjörð á eyunni, svo að drykkjuskapur tók til að útbreiðast og spilla siðum lýðsins. En Vilhjálmur kom heim aptur í tækan tíma og honum hepnaðist að kippa öllu í samt lag; hinn ungi Taumatóa skammaðist sín og bætti ráð sitt, svo hann varð þegnum sínum til góðrar fyrirmyndar, eins og faðir hans hafði verið. Meðan Vilhjálmur var að heiman, reyndu nokkrir ungir menn til að koma aptur á hinum fornu heiðnu siðum, og leiddu marga afvega. En þá tók Drottinn í taumana. Ógurlegt óveður, svo enginn mundi annað eins, rak á og skemdi nálega allt

á eyunni nema kristniboðsskipið, og annað kristniboðarahúsið; af hinu reif þakið. Eyarmenn könnuðust við, að þetta væri hyrting Drottins, og beygðu sig undir volduga hönd hans.

Á Samóaeyunum hafði Vilhjálmur víða lofað að koma þángað aptur að ári, sem sè 1831; en af áðurgreindum ástæðum og sakir lasleika konu sinnar gat hann ekki komið því við fyrr en ári síðar (1832). Þá tókst hann ferð á hendur til eya þessara, og fór úr einni eyu í aðra, og fèkk hann hvervetna svo góðar viðtökur, að hann sá, að kristniboðið var þar vel á veg komið, og að guðsorð hafði snortið hjörtun. Hèr skal að eins tilgreina eitt dæmi. Þegar hann kom til eyarinnar Tutuita, slóu eyarmenn í bátum hríng um skipið, og úr einum þeirra stè únglingur nokkur upp á skipið og kvaðst vera «orðsins barn». Vilhjálmur fór þá niður bát sinn og ætlaði í land; en er hann sá, að ströndin var þakin vopnuðum mönnum, stöðvaði hann bátinn, fèll á knè og baðst fyrir. Þegar eyarhöfðínginn sá það, vóð hann út að bátnum og spurði Vilhjálm, hvort hann væri hræddur við að koma á land. Vilhjálmur svaraði: «já, ekki er eg alveg óhræddur, því að eg hefi heyrt, að þèr sèuð villimenn, og að óttalegt morð hafi verið framið í þessum vogi». «Satt er það», mælti höfðínginn; «en nú erum vèr ekki lengur villimenn, heldur erum vèr kristnir». Og þegar Vilhjálmur spurði, hvernig þeir hefðu kristnast, svaraði hann: «fyrir nærfellt 2 árum kom stórhöfðíngi nokkur, að nafni Vilhjálmur, frá landi hinna hvítu manna til eyarinnar Savaji; margir af vorum mönnum voru þar þá staddir, og er þeir komu heim aptur, kendu þeir oss kristileg fræði, svo margir af oss eru nú orðnir «orðsins börn». Þegar Vilhjálm-

ur kvaðst vera þessi stórhöfðíngi, varð þar svo mikið fagnaðaróp, að það ætlaði engan enda að taka. Eyarbúar fleygðu sèr í sjóinn, tóku bátinn og báru hann með allri skipshöfninni í á herðum sèr í land.

Á eyunni var byggt bænhús, og þar hèlt einn af eyarbúum guðsþjónustugjörð, og þegar Vilhjálmur spurði hann, hver hefði kent honum, sagðist hann opt fara til eyu nokkurrar þar sem væru kennimenn, og fá tilsögn hjá þeim í kristilegri trú. Hèr, eins og víðar, hafði Vilhjálmur þá sorg mitt í gleði sinni, að geta ekki skilið kennendur eptir hjá þessum námfúsu mönnum. Malietóa, höfðíngi á eyunni Savaji, var orðinn sannur þjónn Jesú Krists, og sást það, hver sinnaskipti hann hafði tekið, einkum af því, hve vel honum fórst við samsærismenn nokkra, sem ætluðu að drepa hann, og átti hann þó um sárt að binda, þar sem einn þeirra áður hafði drepið dóttur hans, er hann unni mjög. Hvernig sem lagt var að honum að hegna þeim, fèkkst hann þó ekki til þess, heldur sagði: »eg hefi tekið trú friðarins og heitið að reynast Guði trúr«. Vilhjálmur þakkaði þetta allt Guði, en ekki sjálfum sèr, og sèst hans auðmjúka hjartalag meðal annars af brèfi, er hann ritaði Ellis kristniboðara um þessa ferð sína, og byrjaði það með þessum orðum: »eg hefi ekkert gjört, heldur að eins horft á það, sem Guð hefir gjört«.

Á Englandi hafði áhugi manna á þessu kristniboði mikið dofnað, af því að þangað hafði borizt fregn um einstöku óhöpp, sem sumar eyarnar höfðu orðið fyrir, og því áleit Vilhjálmur nauðsynlegt fyrir sig að takast ferð á hendur til fósturjarðar sinnar til þess, á ný, að vekja athygli góðra manna á Suðurhafseyunum, þar sem uppskeran var svo mikil, en verkamennirnir voru svo fáir,

Hann varð þá um stund að skilja við eyar sínar, sem hann unni svo mjög, og alstaðar skildi hann við þær hryggur og grátandi, eins og Páll postuli forðum við öldungana í Efesus. Árið 1834 kom hann aptur til Englands, og var þar í 4 ár. Hann ferðaðist til og frá um England og Skotland og hélt víða kristniboðsfundi, sem voru mjög fjölmennir, því að allir vildu sjá hann. Gjafir runnu inn til hans úr öllum áttum, frá háum og lágum, ríkum og fátækum, og þegar búið var að smíða kristniboðsskip, sendi skipasmiðurinn í stað byggíngarreiknings kvittun fyrir 4000 rd. með þeim ummælum, að sú gleði, sem hann hefði af að smíða skip til Drottins þjónustu væri fullkomlega þeirra virði. Í Englandi gaf Vilhjálmur út rit um kristniboðið á Suðurhafseyunum, og seldust 38,000 exemplör af því á 5 árum. Um það segir Besser, að hann álíti enga bók líkjast eins mikið Postulanna Gjörníngum. Vilhjálmur hafði nú snúið öllu Nýja Testamentinu, og flutti 5000 exempl. af því með sér til Suðurhafseyanna. Þar að auk hafði hann samið nokkrar guðsorðabækur og fræði, og af þeim voru prentuð 10000 expl. Þegar hann nú við árslok 1838 kom aptur til Suðurhafseyanna, varð mikill fögnuður hjá krisnum mönnum yfir því, «að faðir þeirra væri aptur kominn til þeirra». Alstaðar að bárust honum góðar fréttir, einkum frá Skipherra-eyunum, hvar 50000 manns fengu kristilega uppfræðingu, en íbúar þeirra eru alls 70,000. Eitt var það þó, sem hryggði hann, og það var, að pápiskir menn voru farnir að skemma fyrir honum kristniboðið. 1837 kom frakkneskt herskip til Tahiti til að hegna Pomare drottníngu og eyarmönnum fyrir, að þeir höfðu ekki viljað taka við pápiskum prestum. Drottníngin varð að flýja; lýðnum var veittur yfir-

gángur, og frakkneskir sjómenn leiddu þar inn megna siðaspillíngu og ofdrykkju.

Loks tókst Vilhjálmur kristniboðsferð á hendur árið 1839 til Fidsii-eyanna og Nýu hebride-eyanna. Hryggur skildi hann við konu, börn og vini, og það var eins og hann óraði fyrir, að hann mundi ekki sjá þá aptur. Á þessum eyum voru menn villir og grimmir; en þó voru þeir á eyunum Fatuna og Tanna, þar sem hann kom fyrst, fúsir á að taka við kennendum; og hann fór þaðan glaður í þeirri von, að þær gætu orðið aðalstöðvar hins nýa kristniboðs. Þá kom hann 19. dag nóv.m. til Errómanga, sem hefir verst orð á sèr af öllum eyunum, og hafði kona hans að skilnaði beðið hann að fara ekki þangað. Þegar hann sá eyuna, sagði hann við skipstjórann: «eg er að hugsa um, hvort eg muni ekki bráðum geta flutt konu og börn til Tanna, því þessar eyar þurfa nú meir á oss að halda en hinar aðrar», og skömmu síðar bætti hann þessu við: «það þurfa mörg ár til að tvístra villumyrkrinu á öllum þessum vestlægu eyum». Daginn eptir fór hann í land og með honum kristniboði Harris, Kunningham og Morgan skipstjóri. Eyarmenn, sem stóðu í sjáfarmáli, voru ófrýnilegir útlits, en hopuðu þó á hæl, þegar kristniboðendurnir stigu á land. Börn voru þar í fjörunni að leika sèr, og kallaði Vilhjálmur það góðsvita, og fór að leika við þau. Harris gekk lengra upp á land, en allt í einu hlupu villimennirnir fram vopnaðir með örvum og kylfum. Harris flýði, en datt í læk, sem þar var, og var drepinn með kylfuhöggi. Morgan og Kunningham flýðu líka og kölluðu til Vilhjálms, sem var að leika við börnin. Þeir komust í bátinn og sáu, að Vilhjálmur fleygði sèr í sjóinn, en

að villimennirnir náðu honum og drápu hann með kylfuhöggum og örvaskotum, og fluttu lík hans burt með sèr.

Vilhjálmur var mjög harmaður ekki einungis af konu og börnum, heldur og af hverju mannsbarni á eyunum, og á eyunni Naratonga tóku allir innbúarnir hans vegna upp sorgarbúnað og báru hann árlángt.

Það er dásamlegt, hve mikinn og blessunarfullan framgáng kristindómurinn hefir haft á þessum eyum á svo stuttum tíma, og hvernig guðsorð hefir þar sýnt sinn mentandi og betrandi krapt, rètt eins og í hinni fyrstu kristni. Næstum því á öllum Suðurhafseyunum eru nú blómlegir kristnir söfnuðir, og prestaskóli sá, sem fyrir tilstilli Vilhjálms var stofnaður á Naratonga 1828, hefir orðið til mikillar blessunar.

---

## Kristniboðs sálmur.

### Út lagður[1].

Lag: Sæti Jesú, sjá oss hèr.

1. Hjálpi Guð! hèr enn þá er
akur þakinn dauðum beinum;[2]
vægi Guð! enn víða sèr
varla brún af degi hreinum.
Guð minn, nær mun nótt sú dvína?
nær í heiði sólin skína?
2. Heiðindóms er nauða-nótt
niðsvört enn um heiminn víða;
þungri kvaldar synda sótt
sálir vonarlausar kvíða;
enn er hulið mörgum manna
millíónum ljósið sanna.
3. Ísraels ef lýð eg lít,
lít eg auðn og dauða hræddur;
og við sjón þá hryggjast hlýt:
herrans lýður fyrrum gæddur
yfirburðum yfrið háum
er sem völlur þakinn náum.
4. Æ, hjá kristnum einnig flest

---

1) Í fyrstu eptir Christjan Heinrich Zeller, höfund og forstöðumann hinnar frægu uppeldisstofnunar í Beuggen í Baden. Hann var fæddur 29. marz 1779, dó 18. maí 1860. 2., 3. og 4. vers eru í frumsálminum í annari röð.

2) Sb. Ezek. 37, 1.—11.

anda kristins ber ei vottinn;
hjörtun elska mammon mest,
munnarnir þó tigni Drottin;
þó að lífsins býtt sè brauði,
býr í sálum margra dauði.

5. Lát, ó Guð, þitt lífsins orð
lífgun veita köldum beinum;
lát, ó Guð, hvern lýð á storð
læknast brátt af dauða-meinum;
lát, ó Guð, hið gamla flýja,
gjör þú alla hluti nýja.

*Helgi Hálfdánarson.*

# Hugvekja

## um Þjóðhátíð Íslendinga sumarið 1874.

Þegar þessi vetur er liðinn til enda, og sumarið gengur í garð, teljum vèr tíu hundraðára aldir, eða þúsund ár, liðin síðan þetta land vort bygðist. Í rann rèttri eru hver tímamót þýðingarmikil, því að þau eru áfangastaðir á leiðinni frá vöggunni til grafarinnar; á þessari leið höfum vèr farið eina dagferð í hvert skipti sem sól rennur til viðar, þótt vèr sjaldnast gætum þess, og hinn ófarni æfivegur vor hefir á sama tíma orðið einni dagleið styttri. Vèr hefðum því fullt tilefni til að standa við í huganum og litast um á hverjum dægramótum, vikumótum og mánaðamótum, og hugleiða, hvernig vèr höfum varið hinum liðna tíma. En vaninn sljóvgar oss, svo að hin smærri og tíðari tímaskipti vekja sjaldnast athygli vora. Og vel væri, ef sjálf áramótin gæfu oss ávalt gagnlega og alvarlega hugvekju um hina rèttu notkun tímans.

En hversu sljóvir, hversu athugalausir sem vèr einatt erum, þá eru þó tímamótin á íhöndfarandi sumri svo mikilfengleg og sjaldgæf, að það er naumast ætlandi, að þau geti liðið yfir nokkurn af íbúum þessa lands, sem komnir eru til vits og ára, án þess að hann, að minsta kosti um stund, vakni af daglegu svefnmóki andvaraleysis og athugaleysis, og gefi nokkurn gaum þessu merkilega tákni tímans. Því aflmikil og vekjandi er sú hugsun: Þúsund ár eru liðin síðan forfeður vor-

stigu hèr fæti á land, og festu hèr bú; í þúsund ár hefir Drottins volduga hönd verndað hina fámennu þjóð, sem þetta land byggir, frá því að tínast úr sögu þjóðanna; þúsund vetur hafa liðið yfir þetta land, síðan það var numið, og margir þeirra kaldir og harðir; í þúsund ár hafa íbúar þessa lands átt í margvíslegri baráttu við óblíðu náttúrunnar, og margar hörmungar hafa yfir þá liðið, en fyrir Drottins náð hefir þó landið aldrei eyðst, heldur rètt við á ný eptir hverja plágu; í þúsund ár hefur þetta kalda og hrjóstruga land vort alið börn sín, að vísu eigi við auðlegð og allsnægtir, eigi við hóglífi og munað, en opt við skorin skamt, þó svo nægjanlega, að þau fyrir þá sök eigi hafa þurft að lenda í andlegum eða líkamlegum vanþrifum; — að vèr í framkvæmdum, framtakssemi og mörgum verklegum efnum, er til menningar horfa, enn þá stöndum svo mjög á baki annara þjóða, getum vèr enganvegin eingöngu kent því, að fósturmóðir vor hafi verið og sè svo fáskrúðug, hafi veitt oss svo fátæklegt uppeldi, og látið oss jafnan búa við þröngan kost. Til lítilla framfara vorra í margri þjóðmenningu liggja önnur rök; í þúsund ár hefir hið volduga haf laugað strendur eylands vors, opt valdað oss tjóni, en einnig opt fært oss ríkulega blessun úr sínu auðuga forðabúri; í þúsund ár hafa hin tignarlegu svipmiklu fjöll prýtt aðsetur vort, og bent hugsjón vorri til hæðanna; í þúsund ár hefir Drottinn látið oss auðnast að varðveita hèr þjóðerni vort, og hið fagra mál, sem forfeður vorir töluðu, lifir enn á tungu vorri; þeir komu hingað með heiðin átrúnað, og margir þeirra festu sèr bústaði eptir bendingum, sem þeir eignuðu hinum dauðu skurðgoðum sínum; en ljósið rann upp, og

skein fram úr myrkrunum fáum mansöldrum eptir komu þeirra hingað, þegar kristin trú á sigurferð sinni um heiminn einnig ruddi sèr hèr til rúms, og festi smámsaman rætur í hjörtum forfeðra vorra. Hinn heiðni bólstaður ættfeðranna varð þannig fyrir Guðs náð kristið land, og þjóðin fèkk þekkingu á skapara sínum og Drottni; og vèr höfum eigi heldur farið varhluta af þeirri miklu blessun, sem hreinsun trúarbragðanna við siðabót Lúthers hefir haft í för með sèr í mörgum kristnum löndum.

Alls þessa hljótum vèr að minnast, þegar vèr á komandi sumri höldum **þjóðhátíð vora til minníngar um þúsund ára byggíngu landsins.** Hvert skyldum vèr við slíkt tækifæri snúa huga vorum, ef eigi til föðursins á himnum, sem stjórnar högum vorum, og hefir allt vort ráð í hendi sèr? til hans, sem stýrir árum og öldum, og hefir kjör þjóðanna á valdi sèr? Og til þess að örfa menn til þessa, svo að engum þurfi að gleymast það, og til að gefa slíkum tilfinníngum og hugsunum meiri festu, samheldi og fjör, hefir konungur vor, samkvæmt óskum, er komu fram af hendi landsmanna sjálfra, fyrirskipað sèrstaka hátíðlega guðsþjónustugjörð yfir allt landið, og biskup vor hefir í því skyni valið og fyrirskipað fagran ræðutexta, sem á einkar vel við slíka guðsþjónustu, og gjört aðrar ráðstafanir, lútandi að sem beztri eíníngu í þessu efni um allt landið. Kostum þá, landar góðir, hver í sinn stað, rækilega kapps um, að þessi sjaldgæfa og merkilega minníngarhátíð verði sem áhrifamest, minnistæðust sjálfum oss og niðjum vorum, og í öllu sem fegurst og veglegast haldin; samkomur vorar í Drottins vígða húsi í þessu tilefni skulum vèr láta oss ant um,

að verði rèttnefnd guðsþjónusta, ekki að eins í orði kveðnu, heldur í anda og sannleika. Það væru vissulega hátíðlegir dagar, ef segja mætti um þá með sanni, að heil þjóð kæmi með einum huga i bænum og ákalli og þakkargjörð fram fyrir hinn almáttka og algóða himnaföður — já, ekki einungis hátíðlegir dagar, heldur einnig blessunarríkir dagar mundu það verða.

Fyrir hvað eigum vèr þá að þakka guði? Fyrir alla þá gæzku og örlæti, vernd og varðveizlu, sem hann á hinum liðnu þúsund árum hefir auðsýnt forfeðrum vorum og oss. Um hvað eigum vèr að biðja hann? Um það, að hann vilji af náð sinni fyrirgefa oss hið marga, sem vèr höfum misgjört við hann á liðinni æfi vorri; um það, að hann vilji einnig vernda oss og stjórna oss á tímanum, sem fer í hönd, og gjöra oss hæfa til að lifa honum til dýrðar, en fósturjörðunni til gagns og sóma; um það, að hann vilji framvegis vernda og blessa þetta kæra fósturland vort, auka veg þess og gengi á allan hátt, og gefa því frjálslynda og hyggna, þolgóða og trúarsterka, ötula, einarða, ósèrplægna og ræktarsama sonu og dætur. Hver áform eigum vèr að staðfesta með oss og vígja á þessari þjóðhátíð vorri? Þau, að vinna, hver eptir kröptum sínum og því tækifæri, sem honum gefst, sjálfum sèr heiðarlegan orðstír í Guðs og manna augum, efla eptir beztu samvizku og í bróðurlegri eindrægni sannan hag, veg og sóma fósturjarðar vorrar, svo sem drenglyndum og ráðvöndum mönnum hæfir, og að stunda eptir sem mestum framförum í sannkristilegu líferni, svo að Guðs ríki megi eflast og staðfestast æ meira og meira vor á meðal, og velþóknun hans og blessun hvíla yfir landi og lýð. Ef vèr höldum þannig þjóðhátíð vora, þá mun oss og landi

voru mikillar viðreisnar og auðnu von á komandi öldum; þá mundum vèr sjálfir íklæðast helgum dug, og nýtt líf færast í þjóðlíkama vorn; þá mundi allur góður fèlagsandi glæðast, og manndáð og menníng spretta fram svo sem af sjálfu sèr, og þjóðlíf vort verða ástúðlegt, þrekmikið og fagurt. Svo heillaríka þjóðhátíð gefi góður Guð oss af mildi sinni.

*Hallgrimur Sveinsson.*

# Hugleiðing um forsjón Guðs.

Fyrrum fann eg stundum til efablandins ótta, þegar eg virti fyrir mèr mannkynssöguna og andlegt ástand mannanna og hugsaði til þess, að margar milliónir manna enn þá ráfa í myrkri dauðans án þess að þekkja hinn lifanda Guð, og að ótölulegur mannfjöldi hefir eina öld eptir aðra eytt lífi sínu í fánýtri skurðgoðadýrkun og lagst í gröf sína vonarlaus um eilíft frelsi og eilífa sáluhjálp. Eða þegar eg hugsaði um ríki og drottnun syndarinnar í heiminum, eða um hina eyðandi og truflandi náttúrukrapta. En eg leitaði mèr þá huggunar og fann huggun í guðsorði; eg sá, að Guðs vegir eru óransakanlegir, og að það er skynsemi minni ofvaxið, að ráða gátur mannkynssögunnar og leysa úr því, hve nær og hvernig hinn alvitri alheims stjórnari ætlar að leiða þjóðirnar til síns ríkis. Eg gætti þess þá, að eg geng enn ekki í skoðun, heldur í trú, og að það sem mèr nú þykir einatt myrkt og óljóst, verður mèr á síðan opinberað, þegar eg fæ að skoða augliti til auglitis. Eg fann þá líka til þess, að það er holt og heilsusamlegt fyrir mig, að skilja ekki alla hluti. Gæti eg sèð allt og þreifað á öllu, hvernig ætti eg þá að læra að trúa? og hversu nauðsynlegt er það fyrir mig að læra að trúa, það er að skilja: að höndla hið ósýnilega og grípa hið ókomna eins og það væri hjá mèr? því enginn getur höndlað hið ósýnilega, fyrr en hann er búinn að snúa hjarta sínu frá hinu sýnilega og

hverfula til Guðs, þá getur hann gripið hina ósýnilegu forsjónarhönd, og haldið sèr fast við hana, svo hann villist ekki út í efasemdanna myrkur.

Að vísu sjáum vèr allt eins og í þoku og ráðgátu og getum ekki skilið til fulls leyndarráð hins eilífa nè stjórn hans á heiminum, af því að vèr erum skammsýnar og endanlegar verur; en þó getum vèr einatt eins og þreifað á handleiðslu hans, hvort heldur vèr virðum fyrir oss sögu heilla þjóða eða vorn eigin lífsferil. Er ekki Guðs forsjón áþreifanleg í sögu Gyðingaþjóðarinnar fyrr og síðar? Er hún ekki líka áþreifanleg í sögu kristilegrar kirkju, sem af litlum upptökum hefir um hinar liðnu aldir útbreiðst um heiminn, og er ætlað að útbreiðast, ekki með sverðseggjum, heldur með guðsorði, sem er beittara hverju tvíeggjuðu sverði? Frá því, er þrjár þúsundir Gyðinga skipuðust við ræðu Pèturs postula og lètu skýrast, frá því er Páll postuli stofnaði söfnuði af kristnuðum heiðingjum í 2 heimsálfum, hefir náðarboðskapurinn runnið sitt sigursæla skeið eins og sólin frá austri til vesturs; og eins og sólin sendir meiri hita og meira lífs afl niður á jörðina eptir því sem hún stígur hærra á lopt, þannig hlaut einnig ljós kristilegrar trúar alltaf meir og meir að gagntaka þjóðirnar með hinu mentandi og betrandi lífsafli sínu, bæta siðferðið, af nema mannblót, þrældóm og mansal, útvega hinum guðlegu sannindum gildi í veraldlegum lögum þjóðanna, hjálpa til þess, að íþróttir og vísindi blómguðust og margvíslegar mannelsku stofnanir kæmust á fót, til þess að líkna nauðstöddum og sjúkum, og veita munaðarlausum börnum kristilegt uppeldi. Öllu þessu hefir kristindómurinn komið til leiðar og er það ekki bersýnilegur vottur um Guðs föðurlega

forsjón, sem eptir sínu eilífa vísdómsráði, mun á sínum tíma láta ríki sitt útbreiðast á jörðunni svo að lokunum verði eitt sauðabús og einn hirðir? Og þegar vèr nú lítum til vorrar ástkæru fósturjarðar og gætum þess, hve stutta stund hún hafði verið byggð, þegar Drottinn lèt ljós evangelii tvístra hjá oss myrkrum heiðninnar, höfum vèr þá ekki fylstu orsök til að vegsama Guðs mildiríku forsjón og þakka honum fyrir þá hlutdeild, sem hann hefir veitt oss í náðargjöfum sínum? En æ! vèr megum jafnframt játa, Guð minn góður, að vèr erum minni allri þinni miskun og trúfesti, og að það er sjálfum oss að kenna, að svo mikið ríkir enn af heiðinglegu hugarfari í hjörtum vorum og að heiðinglegir lestir enn þá eiga sèr stað í landi voru.

Þegar vèr nú gætum að hinum mörgu þjóðum, sem enn ráfa í myrkri og ekki hafa litið ljós kristilegrar trúar, verðum vèr að skoða þær eins og þær þjóðir, sem voru uppi fyrir Krists daga og treysta því, að vor himneski faðir muni dæma þær eptir því mentunarstigi sem hann hefir gefið þeim færi á að öðlast og að það verði ekki heimtað eins mikið af þeim eins og hinum, sem meira var lánað, en að þeim sè ætlað að ná æðri mentun og fullkomnun í öðru, æðra og eilífu lífi.

Ef vèr nú lítum á hina sýnilegu náttúru umhverfis oss, þá verðum vèr varir við þá dásamlegu reglu og lög, er hún fylgir í öllum hlutum, sem vèr verðum að eigna alvitrum löggjafa, sem ræður yfir sköpunarverkinu er hann hefir myndað og niðurskipað. „Allra augu vona til hans og hann upplýkur sinni mildu hendi og seður allar lifandi skepnur með sinni blessun“; hann ber umhyggju fyrir öllum sínum sköpuðu skepnum, smáum og stórum; hina eyðandi náttúrukrapta lætur

hann verða til að lífga og viðhalda. Þegar vèr lyptum augunum frá náttúrunni umhverfis oss upp til hins alstirnda himins, sjáum vèr, að hann er þakinn óteljandi stjörnugrúa, sem allar bera vitni um almætti og speki skaparans og ganga viðstöðulaust áfram sínar afskömtuðu brautir, því alvizka hans hefir þannig haft tillit til sèrhverrar mótspyrnu sem verður fyrir himinhnöttunum á þeirra endalausu ferð um himingeyminn, að hún annaðhvort eyðist af gagnstæðum öflum, eða verður að styðja að því að viðhalda reglubundinni rás þeirra. Mundi þá ekki hin sama alvizka stjórna kjörum mannanna. Að vísu er það geigvænlegt að virða fyrir sèr þá krapta, sem koma óhöppum og slysum til leiðar, og ónýta hin beztu áform og fyrirtæki; að vísu er það óttalegt að sjá, hvernig hið vonda vald syndarinnar breytir því í bölvun, sem ætlað var til blessunar. En þessi ótti hlýtur að hverfa þegar vèr gætum þess, að maðurinn hefir að sönnu frjálsræði til að fremja hið illa, sem Guði er á móti, en að alvizka hans getur stjórnað afleiðingum þess og látið þær styðja að því, að ná fyrirætlun sinni og ákvörðun heimsins. Vèr lærum bezt að þekkja þessa óendanlegu speki, sem ræður fyrir viðburðanna rás, þegar vèr gætum að vorum eigin lífsferli og því, sem Guð hefir látið oss að höndum bera. Hversu opt höfum vèr ekki möglað yfir þeim óhöppum, sem oss vildu til, og þeim tálmunum, sem ónýttu vor góðu áform, eða eitthvað, sem vèr gjörðum oss vissa von um; en síðan hlutum vèr að kannast við þá alvitru og nákvæmu föðurgæzku, sem snèri þessu öllu í hag fyrir oss og lèt það verða oss til heilla; eða þegar vèr áttum í stríði við ýmislega mæðu og mótlætingar, og hèldum, að vèr værum að berjast við hörð og ósveigj-

anleg forlög, þá máttum vèr eptir á með blygðun játa, að Guðs gæzkurika speki ætlaði með þessum krossburði að mýkja harðúð og þrjózku hjarta vors, til þess að gjöra oss hæfilega fyrir ástgjafir sínar og velgjörninga.

Ef menn grandgæfilega og alvarlega ryfjuðu upp með sèr umliðna æfi sína, þá mundu flestir, að minsta kosti þeir, sem komnir eru til fullorðins ára, hljóta að kannast við, að þessu er þannig varið og gjöra þessa eða svipaða játningu:

»Því eldri sem eg verð, því betur sè eg og finn til þess, að eilíf miskunsemi Guðs hefir ráðið lífskjörum mínum. Um eitt leyti æfi minnar ráfaði eg í myrkri vantrúar og efasemda, og hugsaði lítið um hann, sem nú er huggun og athvarf hjarta míns; eg ráfaði í myrkri veraldlegs og holdlegs hugarfars og misti sjónar á því ljósi guðlegra sanninda, sem ástríkir foreldrar höfðu kveikt í sálu minni; en Drottinn fylgdi mèr þó og gætti mín á mínum dymmu villustigum; hann lèt þá óblessun, sem leiddi af syndum mínum, verða til að vekja mig og leiða mig aptur til sín og það, sem mèr þókti vera ógæfa lèt föðurgæzka hans verða mèr til hamingju og blessunar. Hann lèt ætíð sorg eða alvarlegar bendingar vitja mín á rèttum tíma til að afstýra því, að eg gleymdi sèr, eða til að uppræta einhverja syndsamlega girnd úr hjarta mínu, sem eg hafði enn ekki alveg yfirbugað«. Sèrhver maður er nokkurskonar smáheimur, eða lítið sýnishorn af heiminum, og fyrst eg nú sè, hvernig Drottins eilífa miskunsemi á svo dásamlegan hátt elur önn fyrir mèr, og með náð og speki stjórnar öllum lífskjörum mínum og blandar blíðu og stríðu saman, eins og hann sèr hentugast fyrir sáluhjálp mína, hvernig getur þá hjá því farið, að eg sè

fyllilega sannfærður um, að hin sama eilífa speki og gæzka stjórni alheiminum og leiði alla hluti eptir sínu vísdómsráði!

---

## Sóknarpresturinn í Saint-Lyphar.

**(Frásaga frá stjórnarbyltíngunni á Frakklandi 1789, og er hún lítið sýnishorn af því óttalega ástandi, sem þar var á þeim tímum).**

---

Þegar skelfi-stjórnin á Frakklandi var sem grimmust og guðleysið sem mest 1793—94, var Landau, sóknarpresti í Saint-Lyphar kastað í myrkvastofu í borginni Nantes, eins og ótal mörgum öðrum prestum. Hann hafði verið þar nokkra stund og sèð marga meðbræður sína flutta burt, en engan þeirra snúa aptur, þegar röðin kom einnig að honum, og kallað var á hann eina nótt með nafni af manni þeim, sem vanur var að vekja þá, er til dauða voru dæmdir. Líka var kallað á háaldraðan munk, sem hjá honum var; og er presturinn tók í hönd hans, brosti öldungurinn blíðlega og mælti: «við höfum lengi átt við sama böl að búa; styddu mig nú á þessari seinustu göngu okkar». Áður en þeir fóru burt úr myrkvastofunni, föðmuðu þeir hina, sem eptir voru og sögðu: «vèr sjáumst aptur» og bentu til himins. Það var nú farið með þá og marga fleiri sem hljóðlegast yfir stræti borgarinnar niður að Loire-fljótinu og út á skip, sem beið þeirra skamt frá landi; var þá undið upp segl og siglt út á mitt fljótið; en er þángað var komið, heyrðist ógurleg rödd, er sagði: «frelsið nú þjóðstjórnina frá óvinum hennar», og jafnskjótt spruttu böðlarnir upp, tóku aumingja prestana, afklæddu þá, bundu þá saman tvo og tvo, og hrundu

þeim útbyrðis ofan í fljótið. Sóknarpresturinn var bundinn saman við gamalmenni það, sem fyrr var getið, og er þeir duttu í fljótið, kölluðu þeir báðir upp í senn og sögðu: ó, Guð! miskuna þú okkur og tak þú okkur til þín». þessi bæn þeirra blandaðist saman við bænir, andvörp og köll annara allt í kríng um skipið, því háreystið var óvenjulegt, eins og nærri má geta. Þessir vesalíngar börðust við bylgjurnar unz þeir sukku; en þá, sem reyndu til að halda sèr í skipið, sem var lítið stærra en teinæríngur, lömdu böðlarnir burt með krókstjökum. Í þessum svifum losnaði um bandið, sem presturinn og munkurinn voru bundnir með, því að þeir höfðu verið bundnir saman í flýti. Presturinn, sem var hraustur og vel syndur, hèlt gamalmenninu upp úr vatninu, og höfðu þeir í fyrstunni nokkra von um að geta bjargað lífi sínu; en brátt styrðnaði gamli maðurinn upp, og sagði hann þá við fèlaga sinn: «reyndu til að losa þig við mig, því eg er kominn í dauðann og gjöri ekki annað en seinka fyrir þèr; hefðir þú verið einn saman, værir þú þegar kominn yfir um fljótið; yfirgefðu mig nú og frelsaðu þig sjálfan». Um leið og hann sagði þetta, leysti hann til fulls kaðalinn, sem þeir voru bundnir saman með. Og er Landau prestur varð þess var, mælti hann: «æ bróðir minn! eg vil ekki yfirgefa þig; eitt skal gánga yfir okkur báða; farðu upp á bakið á mèr; látum ekki hugfallast, heldur treystum Guði». Gamalmennið hlyddi þessu; en til allrar ógæfu höfðu böðlarnir farið þángað sem fljótið var breiðast, og þeir áttu enn lángt til lands; presturinn fór að þreytast, og þeir voru báðir nærri því druknaðir. Múnkurinn fann það, hallaði sèr að eyra prestsins og sagði: «vertu sæll»; síðan slepti hann honum og barst burt af straumnum.

En er presturinn var orðinn einn, fèllst honum hugur, því að hugsa til þess að bjarga öðrum, hafði við haldið hugrekki hans. Svo áhrifamikil er sèrhver góð hugsun. Honum lá nú við að hætta öllum tökum, og láta strauminn bera sig eins og hann vildi; en í þessu bili sá hann bát koma siglandi og mann í bátnum; sem hafði lagt inn árarnar og hèlt annari hendi um borðstokkinn; prestr synti nú að bátnum, rètti ískalda hönd sína upp úr vatninu ofan á hönd formannsins, sem varð mjög illt við. «Veitið mèr ásjá», mælti prestr, «því að eg er aðfram kominn af þreytu». »Haldið yður í bátinn«, svaraði sjómaðurinn í hálfum hljóðum, »eg er að flytja tvo ferðamenn«. »En eruð þèr ekki einn af þessum prestum?«. »Það er eg«, mælti Landau, »og ef þèr viljið ekki bjarga mèr, mun eg deya eins og allir meðbræður mínir«. »Guð forði mèr frá að vera svo harðbrjósta«, svaraði þessi væni sjómaður, »haldið einungis fast í bátinn meðan eg gæti að, hvort ferðamennirnir sofa«. Síðan leit hann aptur fyrir seglið og er hann sá, að þeir sváfu, tók hann prestinn inn í bátinn, lèt hann leggjast niðar á gamla ábreiðu og breiddi segl ofan á hann. «Liggið nú kyrr«, sagði hann, »þegar ferðamennirnir eru komnir burt, skal eg skjóta yður á land og síðan mun góður Guð hjálpa yður». Og er þeir voru farnir og höfðu borgað flutninginn, lagði hann aptur nokkuð frá landi og sagði við prestinn: »rísið nú upp, herra! og súpið hèr dálítið á brennivíni, svo þèr verðið ekki innkulsa; eg get ekki hjálpað yður um föt, en vefjið þessari ábreiðu um yður; eg veit, að konunni minni þykir ekki fyrir því þegar eg segi henni frá, til hvers eg hafi haft hana, því hún segir svo opt við mig: látum okkur setja fram bát-

inn og reyna til að bjarga einhverjum af þessum aumingja vesalingum. Það er góður Guð, sem blæs henni þessu í brjóst; við siglum þá út á fljótið og sjáum opt í tunglskininu lík þeirra, sem drekkt hefir verið, berast rètt hjá okkur ofaneptir straumnum. Við drögum þau upp í bátinn með krókstjökum; stundum eru það konur og ung börn, stundum prestar, bundnir saman tveir og tveir. Það eru margir góðir menn í Nantes, sem láta okkur fyrirfram vita, þegar á að drekkja einhverjum í fljótinu; þá fer eg út með konu minni og syni og við bíðum út á fljótinu, og hefir Drottinn blessað þessar tilraunir okkar og með hans hjálp hefir okkur tekizt að bjarga mörgum manni«. Þá mælti prestur: »Guð launi þèr mannelskuverk þín; ef hann heyrir bænir mínar, mun hann blessa þig og þína og aldrei mun eg gleyma því, hve vel þèr ferst við mig«. »Eg get ekki gjört allt, sem eg vil«, ansaði skipstjórinn; »því að hinir bláklæddu[1] hafa auga með oss, og fyrir þá sök verð eg að skjóta yður í land lengra niður með fljótinu, en get ekki hýst yður; skamt þaðan munuð þèr finna kofa og þar getið þèr barið að dyrum, því þar býr góðgjarnt fólk. Þegar þèr komið þangað, skuluð þèr fá þeim, sem lýkur upp fyrir yður, þennan miða og veit hann, hvað hann merkir; eg verð nú að fara heim aptur; en þèr getið verið óhræddur«. »Hvað ætti eg að hræðast?«, svaraði prestur; »Guð, sem sendi þig til að bjarga mèr, verður með mèr«.
er þeir litlu síðar höfðu stigið í land, faðmaði presturinn grátandi þenna væna mann og beiddi Guð að blessa hann. Þegar hann hafði sýnt presti, hvort hann ætti að halda, snèri hann heimleiðis, en prestur hèlt

1) Svo kölluðust hermenn þjóðstjórnarinnar.

áfram, fann kofann og barði að dyrum. Gamall maður lauk upp fyrir honum, og varð honum hverft við, er hann sá hversu kynlega prestur var búinn með lélega ábreiðu, vafða um mittið, en með bert brjóst og berar fætur. »Hver eruð þèr?« spurði hann. »Eg er bágstaddur aumingi«, svaraði prestur, sem nýlega hefi verið dreginn upp úr Loire fljótinu af mannvinar hendi, sem bað mig að fá þèr þennan miða«. »Verið þá velkomnir«, mælti bóndi; »eptir því sem mèr virðist, munuð þèr vera prestur; Guð veit, að við höfum ekki mikið að bjóða yður; komið samt inn, og við skulum veita yður þann beina sem við getum: það er samkomulag milli okkar, þegar við frelsum einhvern prest, að fá honum blað úr bænakveri okkar, svo aðrir góðir menn þekki hann. Eg ætla nú að kveykja upp eldinn, svo við getum fengið dálítið að borða; síðan skuluð þèr fara að hvíla yður, því að þèr þurfið þess við«. Presturinn komst svo við af þessari góðvild, að hann gat ekki tára bundizt; hann lofaði Guð og þakkaði bóndanum fyrir gestrisni hans; en það hryggði hann að hugsa til meðbræðra sinna, sem allir voru drukknaðir og einkum til hins gamla munks. Daginn eptir kom kona bóndans með dóttur sinni frá Nantes; hún varð glöð þegar hún vissi, að presturinn var þar og sagði við hann: »Það er Guð, sem sendir yður hingað herra góður! Við höfum svo lengi orðið að vera prestslaus. Viljið þèr nú ekki gjöra svo vel að syngja messu fyrir okkur þegar þèr eruð búnir að hvíla yður? Ekki á morgun, heldur hinn daginn er jóladagur, og eg vona, að þèr haldið kvöldsöng á jólanóttina«. Prestur lofaði því. Engin var nú kirkjan og var því hlaða valin til guðsþjónustugjörðar, en guðhræddar konur úr þorpinu

tjölduðu hana innan nóttina áður með rekkjuvoðum; borð var haft fyrir altari og á það breiddur hvítur dúkur og kveikt á tveimur kertum. Þetta var öll sú viðhöfn, sem höfð var á þessum ofsóknartíma; en Guð fer ekki eptir því, heldur lítur á hjartalagið. Á jólanóttina fór hvert mannsbarn úr þorpinu hljóðlega til hlöðunnar og gjörði þar bæn sína til Drottins. Þá var það álitið hið mesta ódæði að koma þannig saman til bænagjörðar og var dauðasök ef það komst upp. Þetta gjörði trú þeirra enn fjörugri og innilegri líkt og í hinni fyrstu kristni. Hinn frakkneski söguritari bætir þessu við: »Æ! hví deyfir meðlætið guðræknina? og hvar finnst nú þessi innilega og brennandi andakt? Nú er það ekki bundið hættu að göfga Frelsarann, og þó gjöra menn það með meira kaldsinni. Kirkjur vorar eru aptur opnaðar; eg sè, að ölturin eru prýdd með blómum og glóandi af gulli og að þar er allt fullt af ljósum, skrauti og viðhöfn; en eg finn hvergi þá brennandi trú, sem gjörði þessar tíðir, er haldnar voru heimuglega og með lífshættu í hreisum fátæklinganna, eða úti í skógunum, svo fagrar og áhrifamiklar«. Bændurnir snèru aptur heim til sín fyrir dögun og hèldu, að enginn hefði komist að þessari guðsþjónustugjörð; en einhver njósnarmaður hafði fengið að vita, að presturinn hèldi til þar í sókninni, og sagt yfirvaldinu frá því, sem lèt vandlega leita að honum á hverjum bæ; en bóndanum tókst þó að fela hann, svo hann fanst ekkí. Nokkra daga varð að loka hann inni í bakaraofni, en á nóttunni fór hann í kotin þar í grend og reyndu bændurnir til á allar lundir að sýna honum elsku sína og virðingu, sem hann gat ekki launað með öðru en því að biðjast fyrir með þeim.

Í þessu þorpi dvaldi presturinn nokkra stund. Ástandið á Frakklandi fór nú að skána og þjóðstjórnin, sem loksins var búin að svala drápgirni sinni, leyfði Frökkum aptur að dýrka Guð feðra sinna. Sóknarmenn Landaus, sem höfðu frétt, að honum hefði verið bjargað af fiskimanni frá Loire fljótinu, komu nú til hans hópum saman og beiddu hann að vitja aptur safnaðar síns, sem hann og gjörði. En þegar hann fór af stað, reisti hann upp krossmark hjá hreisi því, sem hann hafði dvalið í, fèll þar á knè ásamt öllum þeim, er honum fylgdu, og bað Guð heitt og innilega að blessa þau hin guðræknu hjón og börn þeirra, sem höfðu frelsað hann, og svo opt stofnað lífi sínu í hættu til að líkna og liðsinna bágstöddum.

---

# Ýmislegt, sem við hefir borið 1873 viðvíkjandi kirkjunni á Íslandi.

Prestaköll veitt árið 1873.

1. Hreppphólar veittir 21. Febrúar kandidat Valdimar Briem.
2. Skarðsþing veitt 27. Marz presti í Ögurþingum, síra Jóni Bjarnasyni.
3. Selárdalur veittur 7. Maí kapelláni samastaðar, síra Laurusi Benidiktssyni.
4. Arnarbæli veitt 21. Maí presti að Stokkseyri, síra Páli J. Matthiesen.
5. Helgastaðir veittir 23. Apríl presti að Skinnastöðum, síra Benidikt Kristjánssyni.
6. Lundarbrekka veitt 18. Janúar presti að Þönglabakka, síra Jóni Reykjalín, og aptur 23. Apríl, prófasti síra Gunnari heitnum Gunnarssyni
7. Svalbarð veitt 23. Apríl presti að Lundarbrekku, síra Jóni Reykjalín.
8. Möðruvallaklausturbrauð veitt 17. Júní, síra Davíð Guðmundssyni presti að Felli.
9. Bergstaðir veittir 18. Júní síra Ísleifi Einarssyni, fyrrum presti að Stað í Grindavík.
10. Þingeyraklausturbrauð veitt 14. Júlí kandidat og biskupsskrifara Eiríki Briem.
11. Stokkseyri veitt 17. September, síra Gísla Thórarensen, presti að Sólheimaþingum.

12. Desjarmýri veitt 28. Ágúst kandidat Stefáni Pèturssyni.
13. Glæsibær veittur s. d. kandidat Árna Jóhannssyni.
14. Sandfell veitt s. d. kandidat Birni Stefánssyni.
15. Háls í Fnjóskadal veittur 10. September síra Stefáni Árnasyni, presti að Kvíabekk.

---

Kvaddur til prófasts á árinu var að eins presturinn að Reykholti síra Þórður Jónassen, er var skipaður prófastr í Borgarfjarðar-prófastsdæmi 27. Desemb.

---

Útskrifaðir af prestaskólanum 1873.

1. Lárus Haldórsson með 1. einkunn; hann fæst nú við kenslu í Reykjavík.
2. Björn Þorláksson með 1. einkunn; hann er nú barnakennari í Stykkishólmi.
3. Sigurður Gunnarsson með 1. einkunn; hann er nú í Reykjavík og fæst við kenslu.
4. Árni Jóhannsson með 1. einkunn; hann er nú orðinn prestur að Glæsibæ í Eyafirði.
5. Stefán Pètursson með 2. betri einkunn; hann er nú orðinn prestur að Desjarmýri í Norðurmúlasýslu.
6. Björn Stefánsson með 2. einkunn; hann er nú orðinn prestur að Sandfelli í Öræfum.
7. Jón Þorsteinsson með 2. einkunn; hann er nú til heimilis á Hálsi í Fnjóskadal.

---

Prestvígslu voru árið 1873 vígðir þessir:

1. Valdimar Ólafsson Briem, sem prestur að Hrepphólum.

2. Steindór Jóhannsson Briem, sem kapellan að Hruna.
3. Jón Þorláksson, sem prestur að Tjörn á Vatnsnesi.
4. Páll Ólafsson, sem kapellan að Melstað.
5. Árni Jóhannsson, sem prestur að Glæsibæ.
6. Stefán Pètursson, sem prestur að Desjarmýri.
7. Björn Stefánsson, sem prestur að Sandfelli.
8. Jens Pálsson, kapellan að Arnarbæli.

---

## Prestar, dánir á Íslandi 1873.

1. Prófastur síra Guðmundur Einarsson Johnsen í Arnarbæli, 60 ára að aldri.
2. Síra Jakob Finnbogason, prestur að Þingeyraklaustri, 67 ára gamall.
3. Sira Jón Jakobsson í Glæsibæ, 39 ára að aldri.
4. Síra Þorsteinn Pálsson á Hálsi í Fnjóskadal, 67 ára gamall.
5. Prófastur síra Gunnar Gunnarsson, prestur að Lundarbrekku, 34 ára að aldri.
6. Síra Hannes Jónsson í Glaumbæ, 78 ára gamall.
7. Síra Ólafur Thorberg, uppgjafaprestur frá Breiðabólstað í Vesturhópi, 77 ára að aldri.
8. Síra Björn Arnórsson, uppgjafaprestur frá Garði í Kelduhverfi, 72 ára gamall.

---

## Prestar, er hafa sagt af sèr embætti, árið 1873.

1. Síra Benidikt Þórðarson í Selárdal.
2. Síra Jörgen Kröyer, prestur að Möðruvallaklaustri.
3. Síra Matthías Jokkumsson, prestur að Kjalarnessþingum.

---

Fundur sá, er haldinn var að þingvöllum 26.—30. dags Júnímánaðar næstliðið ár, sendi biskupinum ávarp viðvíkjandi guðsþjónustugjörð um land allt einn vissan dag sumarið 1874 í minningu þess, að landið hafi þá verið byggt í 1000 ár. Biskupinn bar ávarp þetta undir álit synodusar og fèllst hún á, að haganlegast mundi vera, að til þessa væri ákveðinn einhver virkur dagur í síðari hluta Júlímánaðar eða fyrri hluta Ágústmánaðar; að öðru leyti fól synodus biskupinum á hendur að gjöra uppástungu til konungs um mál þetta. Eptir að biskupinn síðan hafði borið mál þetta undir kirkju- og kennslustjórnina, hefir hún 10. Sept. f. á. gefið út svolátandi auglýsingu:

»Samkvæmt uppástungu kirkju og kennslustjórnarinnar hefir Hans Hátign konungurinn 8. þ. m. allramildilegast fallizt á, að haldin verði opinber guðsþjónustugjörð á öllu Íslandi árið 1874 í minningu þess, að Ísland þá hefir verið byggt í þúsund ár, að guðsþjónustugjörð þessi skuli fram fara í öllum aðalkirkjum landsins í lok júlímánaðar eða í byrjun ágústmánaðar á þeim sunnudegi, sem biskupinn yfir Íslandi nákvæmar tiltekur, en í aukakirkjunum næsta sunnudag eða næstu sunnudaga eptir, og að biskupnum sè falið á hendur að ákveða texta þann, sem leggja skuli út af við tjeða guðsþjónustugjörð, og að gjöra þær ráðstafanir, sem að öðru leyti með þarf í tilefni af þessu.

Eptir þessu eiga allir hlutaðeigendur sèr að hegða.«

Samkvæmt konungsúrskurði þessum hefir biskupinn í brèfi til allra prófasta á landinu, dags. 25. okt. f. á., ákveðið, að hin umrædda guðsþjónustugjörð skuli

framfara 9. sunnudag eptir Trínitatis, sem er 2. dagur næstkomandi ágústmánaðar, í öllum aðalkirkjum landsins, en á útkirkjum næsta sunnudag, eða næstu sunnudaga á eptir, þar sem því ekki verður viðkomið að messa á fleiri kirkjum en einni áminstan dag. Ennfremur hefir hann fyrir ræðuteksta ákveðið Dav. sálm. 90, 1.—4. og 12.—17. v. og lagt svo fyrir, að prestar gjöri sèr allt far um, að gjöra guðsþjónustugjörð þessa svo hátíðlega, sem unt er, og í því skyni láti hringja eina klukkustund á hverri kirkju kvöldinu fyrir.

Áminstur ræðuteksti hljóðar þannig:

»Drottinn, þú varst vort athvarf frá kyni til kyns. Áður en fjöllin fæddust og þú tilbjóst jörðina og heiminn, já, frá eilífð til eilífðar ertu Guð. Þú gjörir manninn að dupti og segir: Komið aptur, þèr mannanna börn! því þúsund ár eru fyrir þínum augum sem dagurinn í gær, þá hann er liðinn, og eins og næturvaka. Kenn oss svo að telja vora daga, að vèr verðum forsjálir. Snú þèr til vor Drottinn. Aumkastu yfir þína þjóna. Metta oss skjótt með þinni miskun, svo munum vèr fagna og gleðja oss alla daga vors lífs. Gleð oss nú eins marga daga og þú hefir oss beygt, eins mörg ár og vèr höfum sèð ógæfuna. Lát þína þjóna sjá þitt verk, og þeirra börn þína dýrð. Drottins, vors Guðs, góðgirni veri yfir oss og staðfesti verk vorra handa, já, lát þèr þóknast að staðfesta verkin vorra handa.«

---

Á synodus 1873 var meðal annars rætt um uppástungu frá fundi þeim, er haldinn var að Þingvöllum 26.—30. Júní s. á., um að stofna nú í ár íslenzkt

kristniboðsfèlag; synodus áleit að vísa uppástungu þessa í sjálfu sèr fagra og kristilega, en treysti sèr þó ekki til eins og nú er ástatt að fá henni framgengt. Enn fremur var þar rædd og samþykkt uppástunga frá Þórarni prófasti Böðvarssyni um, að synodusnefndin skrifaði öllum prófőstum og leitaði álits þeirra um aðalbreytingar á prestaköllum í landinu.

---

## Yfirlit efnisins:

kristniboðsfèlag; synodus áleit að vísa uppástungu þessa í sjálfu sèr fagra og kristilega, en treysti sèr þó ekki til eins og nú er ástatt að fá henni framgengt. Enn fremur var þar rædd og samþykkt uppástunga frá Þórarni prófasti Böðvarssyni um, að synodusnefndin skrifaði öllum prófföstum og leitaði álits þeirra um aðalbreytingar á prestaköllum í landinu.

---

## Yfirlit efnisins:



---

